# ÁRDÍS

## ÁRSRIT

### BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

XIV. HEFTI



WINNIPEG 1946

# ÁRDÍS

## ÁRSRIT

## BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

**XIV. HEFTI**

Ritstjórar:

INGIBJÖRG J. ÓLAFSSON
MARGRÉT STEPHENSEN

Managers:

GUÐRÚN JOHNSON
ÞORBJÖRG JÓNASSON

**WINNIPEG 1946**

# EFNISINNIHALD

---

# Til "SUMARBUÐA," 7. júlí 1946

## REISIÐ STEININN

Ó, "reisið steininn; eg er þar,"
svo innti herrann forðum.
Hann gefur enn hið sama svar
með sínum kærleiks orðum.
"Og kljúfið viðinn; hann er hér."
Þann helgidóm þar finnum,
að náðarkraftinn nálgumst vér
í nafni Guðs, ef vinnum.

Ó – Heill sé þeim er hornsteininn
með höndum sínum lagði.
Það gekk svo vel að grunnurinn
frá gjöfum Drottins sagði.
Það hulinsmál svo öflugt er,
sú andagift því veldur,
að byggingin var hafin hér
og hennar lífsins eldur.

Að "Sumarbúðum," sæmd er vís;
um sigur þann oss dreymir,
því atorkan þar endurrís,
sem íslezk menning geymir.
Í þrautunum gefst þrótturinn
og þolinmæðin góða.
Þann ávöxt ber sú auðlegðin
í insta sálargróða.

Hér skín þín dýra dagsins brún,
sem dreifist út og lifir,
og Íslands fáninn hæst við hún
þér höfði svífur yfir.

Nú þangað heim æ fjöldinn fer;
þar fléttast vinaböndin.
Hinn trúi þjónn það brauð fram ber
sem blessar Drottins höndin.

Til "Sumarbúða" horfi'eg heim
og heyri óminn þaðan,
það talar margt í tónum þeim
sem tengir hugi saman.
Eg þekki Íslands andardrátt
og æsku blíða vorið.
Og algæskunnar alheims mátt
þá örðugt reyndist sporið.

Nú lyftist von mót himni há
í helgum vorsins úða,
að vara megi vökvinn sá
í vexti "Sumarbúða."
Því lífsins valdi lútum vér
sem letrar rúnir þessar.
Ó – reisið steininn; hann er hér,
sem hjartans grunninn blessar.

– **Ingibjörg Guðmundsson**



# RÆÐA

**flutt á 22. ársþingi, Bandalags lúterskra kvenna, í Grundarkirkju, Argylebygð, 2. júní 1946.**

Þá snéru þeir aftur til Jérúsalem frá Olíufjallinu, sem svo er nefnt, og er í nánd við Jérúsalem, hvíldardagsleið þaðan. Og er þeir voru inn komnir, fóru þeir upp í loftstofuna, þar sem þeir héldu til. – Allir þessir, voru með einum huga stöðugir í bæninni ásamt konunum og Maríu, móðir Jesú, og ásamt bræðrum hans. Postulagsagan, I., 12,-14.

Hlýr vorblær hvílir yfir frásögninni um himnaför Jesú. Lúkasar guðspjall endar á henni. Postulasagan heldur henni áfram. Frásagan er full af fegurð og dýrð. Lærisveinarnir virðast ekki undrast atburðinn. Samdvöl þeirra með Jesú, eftir upprisuna, undirbjó þá undir hana. Hún var eðlileg, í ljósi alls þess, er á undan var gengið.

Uppstigningin, ofar mannlegum skilningi eins og hún er, var hvortveggja í senn, leyndardómsfull og guðdómleg. Um 500 manns voru sjónarvottar að henni. Vegsamandi Guð, snéri hinn fámenni hópur lærisveinanna til borgarinnar á ný. Þar áttu þeir samdvöl, og lifðu í eftirvæntingu þeirrar blessunar, sem í vændum væri, og sjálfur Jesú hafði lofað þeim, að koma mundi.

Yfir frásögninni allri hvílir hinn ljúfi vorsins blær, sem oss Íslendingum er svo kær. Því vér dýrkum vor og hækkandi sól. Andlegt sumar var hér í aðsígi, með sumargróður í sálum manna. Frásagan á í sér fólgna mikilsverða lærdóma fyrir kristni allra alda. Í henni felast hin sönnu bjargráð til viðreisnar kristni lífi vor mannanna. Suma þeirra vil eg minnast á og leiða athygli að.

Við könnumst við nöfnin, sem að upp eru talin í textanum. Það eru nöfn mannanna sem að meistaranum voru handgengnastir, ásamt konunum, er verið höfðu í fylgd með honum, en María móðir hans, og bræður eru hér nefnd í lærisveina hópi í fyrsta sinn.

Þannig hefir það jafnan verið í kristninni síðan, allt til þessa dags, **að það hafa verið smá hópar tryggra unnenda Jesú í hverra skjóli, að starf kristinnar kirkju óx og blómgaðist.** Þannig var það á ættlandi voru á næstu áratugum áður en kristni var löggilt á Íslandi.

Tiltölulega fáir menn, en áhrifaríkir, urðu þar talsmenn hins nýja siðar, og löðuðu aðra til fylgis við hann, áður en alþjóð manna skipaðist undir merki krossins.

Í sögu Vestur-íslenzkrar kristni, voru það smá hópar kvenna og manna, sem í flestum byggðarlögum urðu málsvarar og frumleiðtogar í starfi safnaða vorra. Þannig var það einnig í þessari byggð. En brátt urðu hér svo að segja allir byggðarmenn, þeim málum sinnandi.

Smá hóparnir helgaðir þjónustu Krists, eru máttugir til starfs og dáða. Saga kirkjunnar sýnir það, bæði fyrr og síðar.

Þessu næst leiði eg athygli að þeirri hugarstefnu, sem lýsti sér hjá þessum fámenna lærisveinahópi, sem hér greinir frá. Áberandi einkenni þeirra var hlýðnin við boð frelsarans. Þeir fóru til loftstofunnar, sem var þeim bæði kunn og kær, og ógleymanlegu minningarnar voru við tengdar. Þar höfðu þeir lifað æfi sinnar ógleymanlegustu og stærstu stundir. Hinztu máltíðar er þeim lifði í minni, höfðu þeir neytt með Jesú þar. Þar hafði hann fám dögum síðar sannfært þá um virkilegleika upprisu sinnar, og mælt til þeirra hughreystandi og sannfærandi orðum. **Minningarnar** helguðu staðinn og gerði þeim hugljúft þar að dvelja.

Jesú hafði boðið þeim, að bíða, unz að huggarinn, er hann myndi þeim senda, kæmi til að styrkja þá og blessa. Nú bíða þeir eftir uppfyllingu þess fyrirheitis. Ef til vill þráðu þeir annað meira en það, að bíða aðgerðalausir, þráðu annir og störf, en ekki kyrsetu og athafnaleysi. Biðtíminn í reynzlu manna er oft erfiður, og reynir sálir flestra öðru fremur

Biðin eftir bréfi frá fjarlægum ástvini, er við hugsum um, með von og kvíða, er jafnan ærin þrekraun, sem margir reyndu á umliðnum stríðsárum. Ótti og von háðu þar oft ærna baráttu í þreyttum huga. Biðin eftir endurheimtri heilsu, er oft mikil eldraun. Biðin eftir því að birti til, þegar að dimmviðri örlaganna formyrkvar sólu fyrir sjónum manna. Biðin eftir árangri af iðju manna og erfiði, gengur oft nærri sálum. Biðin, að bænir vorar séu heyrðar, bænirnar sem við héldum að væru Guðs vilja samkvæmar og bárum fram af djúpri þörf og heitri þrá, regnist mörgum átakanleg. Þá er hún einnig þung biðin eftir því, að fyrirætlanir vorar og áform nái fram að ganga, og verði að virkileika. Að bíða þess, að fyrirheitin rætist, reynir á trú vora á Guð, og sigur þess málefnis, sem við berum fyrir brjósti.

Þetta var reynzla frum-lærisveina Jesú. En þeir notuðu biðtímann vel og greiddu komu heilags anda veg, að sálum sínum, með sameiginlegri bæn og bróðurhug, "í einum anda". Þeir vissu, að loforð hans gátu ekki brugðist.

Af fyllstu alvöru hjartans, hafði hver og einn þeirra gengið meistaranum á hönd. Sízt vissu þeir hvað framtíðin hafði þeim að færa. En þeir bjuggu sig undir hana, sem bezt þeir máttu, og biðu hins ókomna með sigurvegarans hugarfari, í trausti til Jesú og loforða hans.

Og svo kom fullnæging fyrirheitisins, heilagur andi, til að styrkja og blessa þá. Stærstu andlegu straumhvörfin sem komið höfðu á þessa jörð, gróðrarmagnið, sálum þeirra til blessunar.

Hann lætur hálfdauða trú vora verða að lifandi mætti. Þetta útstreymi guðlegs máttar, er óþrotlegt og stendur öllum til boða, í samfélagi við Jesú og hugsjónir guðsríkisins. Þessi gróandi er enn að verki í orði Guðs og sakramentum, og hverjum göfgandi áhrifum, sem mannssálin verður fyrir. Án áhrifa hans á trú vora, ríkir vetur í sálum. Við förum á mis við það gróðrarmagn, sem er líf sálnanna, í samfélagi voru við Guð.

Eftirvænting hins ókomna er jafnan máttug í lífi flestra manna. Íslenzka snildarskáldið, Þorsteinn Gíslason, lýsir eftirvæntingum og vonum mannshjartans með því, að líkja þeim við heiðbjartan vorhimin.—

"Þú ert fríður, breiður blár,
bjartar lindir þínar.
Þú ert víður, heiður hár
sem hjartans óskir minar."

Vonahiminn manna er víðfeðmur og hár. Eftirvænting hins ókomna á oft undra lyftimagn í sér fólgið. Tíðum hryngja þó vonahallir vor mannanna, af því að þær eru einvörðungu byggðar á eigin þrá, án þess, að vera í Guði grundvallaðar.

Sennilega gerðu þeir sér óljósa grein fyrir sigurundrum þeim, sem biðu þeirra. En framtíðin var í drottins hendi, og þeir mættu henni öruggir og ókvíðnir. Þetta er hin sigrandi afstaða allra sannra lærisveina drottins, á öllum öldum. Mitt í hraðfleygi breytinganna, er Guð að skapa þjónustu möguleika, stærri en nokkru sinni fyr. Breytingarnar færa þá með sér. Merkur kinverskur mentamaður sagði nýlega: "God is weaving a new pattern for His church, in these changing times, our duty is to accept it and go forth to meet it." Vel á við, að minnast þess, að það er æskan, sem mikið er undir komið. Þjónustan í þarfir hennar greiðir guðsríki framtíðarinnar veg, öllu öðru fremur.

Undir lok máls míns reikar hugur minn til yðar, sem í dag eruð gestir þessa prestakalls, meðlimir Bandalags lúterskra kvenna, hér staddar, á

22. ársþingi félagsskapar yðar. Með einlæga þrá í huga, að þjóna Guði og samtíðinni, innan vébanda kirkju vorrar, hafið þér að verki verið.

Ýms hafa hlutverk yðar verið. Þér leituðuð þar að verkefni, sem þörfin á þjónustu var mest, í þarfir æskunnar, innan kirkju vorrar. Hugsun félags yðar hefir stöðugt verið sú, að hjálpa æskulýð vorum til að finna hin sönnu og varanlegu verðmæti trúarinnar á Guð. Hjálpa henni til að kynnast orði hans, og náð,, sem í Kristi Jesú er opinberuð. Þannig hafið þér viljað tryggja framtíð vorrar andlegu móður, kirkjunnar, sem við öll unnum og þráum að þjóna.

Með hlýðni við hugsjónir og kenningar Jesú, hafið þér í sönnum þjónustuanda, að verki gengið. Sem félagsheild, þekkið þér hin þroskandi og þjálfandi áhrif, sem biðin á í sér fólgin. Ýms örlög urðu þess valdandi, að stóru framkvæmdirnar, sem ykkur svo lengi dreymd um, mættu hindrun, svo lítt varð aðhafst um hríð. En biðtíminn varð tími bænar og þroska, tími alvöru og helgunar og trúaröryggis, undirbúningur undir þjónustu í stærri stíl, er þér lengi vel þorðuð að láta yður um dreyma. Festa yðar í áformum, áræði til framkvæmda, trú á gott málefni, lyfti yður til framkvæmda og dáða, sem vakið hefir aðdáun í hugum vor margra, er vildum fylgjast með starfsferli félags yðar. Við vottum yður hjartans þökk fyrir fordæmið, sem þér hafið oss öllum gefið.

Eftir tuttugu og eins árs starf, standið þér nú við opnar dyr hins ókomna. Hugsjónir, draumar og fyrirætlanir, eru að verða að virkileika. Verkefnin eru að verða stærri. Vart getið þér gert yður fulla grein fyrir því, hve áhrifarík þau muni verða, sé vel á haldið. En það, sem og allt annað, leggið þér í hönd hans, er þér treystið, og viljið þjóna, en væntið blessunar og handleiðslu af náð hans.

"Þá sneru þeir aftur til Jerúsalem, og er þeir voru þangað komnir, fóru þeir upp í loftsofuna. Allir voru þeir með einum hug, stöðugir í bæninni." Þessi orð textans vil eg skilja eftir í hugum yðar allra, að lokum. Leið ykkar liggur til loftsalsins, sameinaðir hugir til bæna, og hendur til starfa, hver ein í sinu umhverfi, en allar sameinaðar í anda.

Megi fegurstu sérkenni frumkristninnar einkenna öll ykkar framtíðar störf, í Jesú nafni. Þá hina sömu bæn vil eg frambera þessu prestakalli og hverjum einsaklingi til handa.

Megi vorgróður hins andlega lífs ná hér djúpum tökum. Guðs heilagi andi, veri leiðtogi vor allra til sigurs, í lífi og dauða.

**S. Ólafsson.**

# MINNING MERKRAR KONU.

Síðast liðinn páskadagsmorgun var messað í Garðarkirkju. Messan var frábærlega fögur og áhrifamikil, og að því leyti frábrugðin venjulegu messuformi, að tiltölulega lítið var þar um hönd haft annað en söngur. Auk hins venjulega sálmasöngs safnaðarins, fór þar fram hátíðasöngur mikill, sem prestur og söngflokkur tóku þátt í, undir leiðsögn söngstjóra.



Guðrún Ólöf Bergmann

Við messugjörð þessa var viðstaddur ungur maður af amerískum ættum. Lét hann í ljós undran sína yfir því, að lítill sveitasöfnuður stæði á svo háu menningarstígi, að hann megnaði að færast í fang slíkt hlutverk, og, leysa það lofsamlega af hendi. Hér hygg eg að glöggt gestsauga hafi séð árangurinn af löngu og margþættu menningarsarfi, sem unnið hefir verið í þessari bygð.

Því vitanlega er ekki hátt menningarstig gripið úr lausu lofti. Og sé hér um nokkuð verulegt að ræða liggur að því langur ferill vaxtar og þroskunar. Það hefir náðst aðeins sem ávöxtur af þróttmiklu starfi. Margskonar áhrif hafa þar komið til greina, sum máske sterkari og meira áberandi en önnur, en sem þó öll setja sinn blæ á ávöxtinn.

Aðkomumaðurinn fyrnefndi, talaði um menning safnaðarins. Eðlilega kemur manni í hug, að líklega hafi prestar safnaðarins lagt til sterkustu áhrifin á því sviði, og það því fremur sem allir prestar, sem Garðarsöfnuði hafa þjónað, hafa verið mikið meir en meðalmenn í sinni stétt. Svo lánsamur hefur þessi söfnuður verið.

En hvað er þá um prestskonurnar að sega? Það er ætlast til þess af þeim að þær einnig séu leiðtogar innan síns verkhrings. Ekki fæ eg betur

séð, en að þær hafi verið monnum sínum fyllilega samboðnar og að þeirra áhrif á sveitarbraginn hafi verið heppileg og eftirtektaverð.

Það hefir verið sagt, að menningarþroski hverrar þjóðar sé í beinu hlutfalli við menningarþroska heimilanna, sem hana mynda. Hið sama má sega um hvert bygðarlag fyrir sig. Það er einnig viðurkent, að á heimilunum nái áhrif konanna að öllum jafnaði hámarki sínu, og að í gegnum heimilin breiðist áhrif þeirra mest og bezt út til umheimsins. Það er í þessu sambandi sem mig nú langar að minnast fyrstu prestskonunnar sem búsett var í Garðarbygð. Sú kona var, frú Guðrún Bergmann.

Guðrún Ólöf Bergmann, var Eyfirsk að ætt. Hún var dóttir séra Magnúsar Thorlacius sóknarprests að Reynistaðarklaustri, og konu hans, frú Guðrúnar Jónasdóttur Bergmann. Hún uppólst í foreldrahúsum ásamt systkinum sínum, Önnu Maríu (frú Grönvold) Elíni Valgerði, nú til heimilis í Winnipeg, og Hallgrími, síðar prests að Glaumbæ. Af þessum systkinum er nú Elín Thorlacius ein á lífi.

Tuttugu og fimm ára að aldri, sigldi Guðrún til Kaupmannahafnar, eins og þá var mjög títt að stúlkur gerðu. Erindið var að kynnast lífi, og háttum annara þjóða. Í sex ár dvaldi hún í Danmörku, Noregi og Svíþjóð, en þó lengst í Danmörku.

Meðan hún dvaldi í Kaupmannahöfn var hún eitt ár til heimilis hjá hefðarkonu nokkurri, sem gaf sig við því að kenna ungum stúlkum allt sem lýtur að heimilishaldi og heimilsstjórn. Var kenslan fremur verkleg en bókleg. Hefur hin unga íslenzka stúlka sjálfsagt verið natin við námið, því seinna meir, þegar hún stofnaði sitt eigið heimili, varð það fljótt annálað fyrir smekkvísi, fegurð og myndarskap.

Árið, 1887, flutti Guðrún til Ameríku, og var fyrst um sinn til heimilis hjá frændfólki sínu, Eiríki og Ingibjörgu Bergmann, að Garðar. Þar kyntist hún séra Friðrik J. Bergmann og giftist honum, 15. apríl 1888. Voru þau hjónin systkinabörn. Jón Bergmann faðir séra Friðriks, var bróðir Guðrúnar Thorlacius, móður Mrs. Bergmann.

Nálega eina mílu vestur af Garðar pósthúsi, stofnsettu hin ungu hjón heimili sitt, í fremur litlu, en snotru húsi. En áður en mörg ár liðu, bygðu þau sér stórt og fagurt hús, ekki meir en steinsnar frá eldra heimilinu. Umhverfið var yndislegt skógarrjóður Linditrén í rjóðrinu voru sérlega stór og fögur og húsráðendur unnu þeim mjög. Hvítur skiðgarður umkringdi heimilisstæðið. Hafði húsmóðirin gróðursett eða látið

gróðursetja margskonar blóm og skrúðrunna í garðinum. Þar átti hún einnig stóran matjurtagarð og ræktaði þar ýmislegt sem á þeim dögum var sjaldséð út um landsbygðina. Það var eins og allar jurtið blómguðust og döfnuðu í höndunum á henni.

Heimilið var ekki síður fagurt innan dyra en utan. Þar kom glöggt í ljós kunnátta, smekkvísi og stjórnsemi húsmóðurinnar. Og á heimili Mrs. Bergmann þótti gott að vera. Oft var þar mannmargt. Fjölskyldan var stór. Stundum voru foreldrar prestsins og móðir prestskonunnar þar til heimilis. Þráfaldlega dvöldu þar unglings piltar til að njóta tilsagnar séra Friðriks í ýmsum námsgreinum. Auk þess var þar vinnufólk eins og gerist á sveitaheimilium. Bæði áttu hjónin sinn þátt í að gera heimilið aðlaðandi fyrir þá sem þar dvöldu, því þau voru samhent vel.

Gestkvæmt var gjarnan hjá Mr. og Mrs. Bergmann, bæði af aðkomandi ferðafólki og eins af bygðarbúum. Enda virtist svo sem gestrisnin ætti þar bústað, sem laðaði til sín yngri sem eldri.

Dag einn í marsmánuði 1893, voru líðlega tuttugu fermingarbörn komin á prestssetinu til spurninga. Þann dag átti systir prestskonunnar afmælisdag. Eftir að spurningum var lokið, var slegið upp afmælisveizlu, með spurningabörnin að gestum. Ekki man eg hver veizluföng voru á borðborin en geng út frá því, að það hafi verið eitthvað af hinum ljúffengu réttum, sem Mrs. Bergmann var orðlögð fyrir. En glaðværðin, ástúðin og skemtan sú er unglingarnir nutu við þetta tækifæri, er enn í fersku minni spurningabarninu, því er þetta ritar. Og þó eru fimtíu og þrjú ár liðin síðan.

Oft voru stór heimboð haldin að heimili prestshjónanna. Það mun hafa verið reynt að haga svo til, að sem felstir af bygðarbúum hefðu einhverntíma tækifæri til að taka þátt í þessum samkvæmum. Að sumrinu voru þessar veizlur stundum haldnar að kvöldi til í skrúðgarðinum umhverfis húsið. Þá var lituðum ljósum (Japanese lanterns) komið svo fyrir milli trjánna að allt svæðið var uppljómað. Þótti það fögur sjón. En meðal gestanna ríkti gleði og ánægja við söng, leiki og uppbyggilegar samræður. En húsmóðirin gekk um, hæglát og glaðleg, og reyndi á allan hátt að hlynna sem best að gestum sínum. Ekki verður um það efast að áhrif þessara gleðimóta hafi verið mikil og haft stórt menningarlegt gildi.

Þó áhrif Mrs. Bergmann, sem húsmóður, hafi efalaust sett svip sinn á bygðarbraginn í Garðarbygð, voru áhrif persónu hennar ekki síður

heppileg. Þessi fríða kona kom í öllu fram sem fyrirmynd. Hún var kurteis og glaðleg í viðmóti, ljúf og litillát, kærleiksrík og góðgjörn og vildi í öllu láta gott af sér leiða. Mild var hún í dómum og fann sárt til með þeim sem áttu við erfið kjör að stríða. Óafvitandi ávann hún sér traust, vináttu og virðingu þeirra sem hún umgekst. Hafa þessar tilfinningar gagnvart henni reynst haldgóðar, því þó langt sé síðan hún flutti burt úr Garðarbygð, er hennar þar enn minst sem hinnar ágætustu konu, sem var sómi og prýði bygðarinnar.

Til Winnipeg fluttu Bergmanns hjónin fyrir sem næst fjörutíu og fimm árum síðan. Þar starfaði séra Friðrik sem kennari, og sem prestur þar til dauða hans bar að höndum snemma að sumrinu 1918. Eftir að hans misti við bjó hún göfuga ekkja hans áfram í Winnipeg það sem eftir var æfinnar.

Bergmannshjónin eignuðust sjö börn. Fjögur þeirra lifðu til fullorðinsára. Þau eru eftir aldursröð: Magnea Guðrún (Mrs. G. A. Paulson); Jón Halldór; Ragnar Steingrímur, og Elisabet Valgerður (Mrs. M. Anderson.

Mrs. Bergmann dó að heimili Elisabetar dóttur sinnar, í Winnipeg, 10. september 1938. Hún var jarðsungin frá Fyrsta lútersku kirkju 13. dag sama mánaðar. Fjöldi fólks fylgdi henni til grafar. Engu minni mun þó hafa verið sá hópur vina hennar, sem ekki höfðu tækifæri til að vera viðstaddir hinar hinztu kveðjur í kirkjunni, en sem í fjarlægð mintust hennar með kærleika og með söknuði. Áhrif hinnar góðu konu höfðu ætíð verið þannig, að þau tendruðu göfugar tilfinningar í hjörtum þeirra sem þektu hana.

Marg blessuð sé minning hennar.

**K. H. O.**

---

# SUMARBÚÐIR BANDALAGS LÚTERSKRA KVENNA

Þetta nafn þarf ekki skýringar við, því það er orðið svo alþekt meðal Íslendinga, þó rétta nafnið, á þeim stað við Winnipegvatn, sem hér er átt við, sé í raun og veru alt annað: **Sunrise Lutheran Camp.** En Sumarbúðir er miklu þægilegra í meðförum þegar skrifað er á íslenzku. Frá því sem

þarna hefir gerst í sumar, eða fram yfir 7. júlí, hefir verið svo vel og nákvæmlega skýrt í **Lögbergi, Sameiningunni og Our Parish Messenger,** að eg hefi þar engu við að bæta. Hinsvegar virðist ástæða til að **Árdís,** ársrit Bandalags lúterskra kvenna, segi eitthvað um það, sem það félag hefir sjálft gert og gera látið þarna niður við vatnið, við Húsavík, á þessu síð astliðna sumri, því það er fyrst og fremst fyrir þess aðgerðir, að Sumarbúðirnar hafa verið reistar og mikið starf hafið, sem sterkar vonir og líkur eru til að mikið gott og gagnlegt hafi í för með sér.

Þegar eg, um hádegisbil 7. júlí í sumar, kom til Húsavíkur í fylgd með A. S. Bardal, sem tók með sér eins margt fólk og bíllinn tók, það er hans vani, fólk sem ekki á sjálft bíl, þá varð mér eðlilega fyrst fyrir að líta á þau miklu mannvirki, sem þar höfðu verið gerð á mjög stuttum tíma, og það á þeim tíma þegar svo afar erfitt er að fá margt af því sem til bygginga þarf, bæði margskonar efni og vinnukraft. En Bandalaginu hafði lánast að fá hinn góðkunna mann, Svein Pálmason, til að standa fyrir verkinu, og með honum tvo aðra menn, þá Hrólf Sigurðsson og S. O. Bjerring, sem vafalaust hafa verið Sveini mikil hjálp, þó þeir hafi ekki sjálfir unnið mikið að byggingunum, það hefir Sveinn gert og leyst verkið svo fljótt og vel af hendi að aðdáunar er vert. Þarna voru þá fullgerðar fimm byggingar, þrjár stórar og tvær minni. Þar er stór bygging, borðsalur, eldhús, og brunnhús, þar sem ískalt, ágætt vatn flæðir stöðugt upp úr jörðunni. Næst er lítið hús, sem ætlað er fólkinu sem þarna vinnur og skrifstofa Sumarbúðanna. Þá kemur svefnskáli stúlknanna. Stór bygging og haganleg, sem fólkið í syðra prestakalli Nýja Ísland hefir kostað að öllu leyti. Næst er svefnskáli drengjanna, rétt eins og hinn svefnskálinn. Hann er gefinn af fólki í prestakalli norðurhluta Nýja Íslands. Þá er enn minni bygging, sem ætluð er fyrir sjúkrahús ef á kann að þurfa að halda, og er sú bygging gjöf frá Íslendingum í Langruth, Man. Fyrst töldu bygginguna mun fólk í Winnipeg hafa aðalleg kostað, en Bandalagið sjálft bygginguna, sem ætluð er starfsfólkinu og fyrir skrifstofu.

Það hefir verið svo nákvæmlega sagt frá vígsluathöfninni í þremur fyrnefndum blöðum, að óþarfi virðist að segja frá henni hér. En eg get einlæglega sagt, að mér þótti hún fara fram mjög hátílega og fallega.

Þar sem þessar Sumarbúðir hafa verið reistar, á Bandalag lúterskra kvenna 12 ekrur lands, sem liggur frá þjóðveginum niður að vatninu og er þar ágæt sandfjara. Af mestum hluta landsins hefir skógurinn verið höggvinn og landið hreinsað, en þó er allstórt skógarbelti norðan við bygg-

ingarnar og er að því mikil prýði. Annars er þessi staður prýðilega fallegur frá náttúrunnar hendi, en mannshöndin gæti þó gert hann enn miklu fallegri, og gerir sjálfsagt með tíð og tíma. Mér hefir lengi fundist Íslendingum hér í landi ganga heldur erfitt, að átta sig á fegurð sléttunnar. Við höfum kannské þá oftrú á íslenzkri náttúrufegurð, að hvergi geti verið verulega fallegt, þar sem ekki eru fjöll og fossar, hlíðar og dalir, klettar og klúngur, jöklar og hraun. Það þarf líklega skáld og málara til að kenna okkur að sjá fegurð sléttunnar, hún er alveg áreiðanlega til. Jónas Hallgrímsson sá fegurðina á sléttlendinu í Danmörku þegar "lauf skrýðir björk, þegar ljósgul er mörk" og honum þótti þar gott um að litast, og fyrir sjónum hans verða svolitlir rúgakrar í Danmörku, fyrir hundrað árum, að "lifandi kornstangamóðu." Við sem heima eigum á sléttlendinu, verðum að læra að sjá og meta fegurð sléttunnar, en það þarf líklega bæði skáld og málara til að kenna okkur það. Þessi staður mun fyrst og fremst vera ætlaður æskunni, en mér skilst að maður geti gert sér miklar vonir um, að þess verði ekki langt að bíða, að margt fólk og á ýmsum aldri, leiti sér þarna hvíldar og hressingar og gleði, þegar það tekur sér nokkra frídaga að sumrinu. Staðurinn virðist sérstaklega vel til þess fallinn.

Síðan eg kom til Sumarbúða, 7. júlí í sumar, hefir verið byrjað að reisa þar enn eina byggingu, sem er stærri og meiri en nokkur hinna. Þar eiga að vera kenslusalir, lestrarsalur og almennur samkomusalur. Er bygging sú helguð minningu þeirra manna, af íslenzkum ættstofni, sem lífið létu í heimsstríðunum tveimur á vorri tíð. Til þeirrar byggingar hafa margir gefið örlátlega.

Að síðustu má geta þess, að starfsemin í Sumarbúðum, á þessu fyrsta starfsári þar, hefir gengið ágætlega og aðsókn verið mikil.

F. J.



# Landnámskonur Nýja Íslands.

**Erindi flutt af Mrs. Hrund Skúlason á ársþingi Bandalags lúterska kvenna í Argyle 1946.**

Forseti, félagssystur og gestir:

Á komandi sumri hafa norðurbyggðir Nýja Íslands í hyggju, að reisa svefnskála í sambandi við Sumarbúðir Bandalags lúterskra kvenna. Sá skáli á að vera minnisvarði landnema Nýja Íslands.

Í tilefni af þessu, langar mig, að minnast með nokkrum orðum þeirra manna og kvenna, er fyrst námu þar land, sérstaklega vil eg minnast landnámskonunnar. Hefur hennar lítið verið minnst, en við vitum öll, hvað mikils virði hennar barátta hefur verið fyrir okkur, og hvað mikinn þátt hún átti í því, að gera Nýja Ísland það, sem það er í dag.

Flest okkar hafa lesið landsnámssöguna. Skýrir hún vel frá fyrstu árum þessa fólks í hinu nýa landi. Öllum þeim veikindum og hörmungum sem það varð að líða. – Einnig skýrir sagan frá ástæðum fyrir þeim mikla burtflutningi, sem átti sér stað frá Nýja Íslandi, 1878-1881. Burtför, sem skildi eftir af 2000 manns, aðeins 200-250 húsfeður.

Því varð þessi litli hópur eftir? Því leitaði hann ekki líka burt frá forardýkjum og vegaleysum Nýja Íslands? Burt frá sorgum og stríði, sem auðséð var að yrði hlutskifi þeirra, sem eftir voru. Því fluttu þeir ekki líka til björgulegri sveita? Var það fyrir getu- eða framtaksleysi? Eða voru ástæðurnar aðrar? Það er satt að flest af þessu fólki hafði enga peninga til að kosta burtflutning sinn, en sagt er að stjórnin hafi lánað mörgum fé til að flytja burt, eftir að auglýst hafi verið, að bygðin meðfram Winnipegvatni væri ekki heppilegur mannabústaður. Peningaleysi hefir því ekki verið aðalástæðan. Framtaksleysi því síður. Fólk þetta hafði sýnt greinilega þol og áræði þegar það réðist í að flytja burt frá Íslandi, sumt frá all góðum heimilum til að hefja landnám í lítt þektu landi. Að mínu áliti voru ástæðurnar tvær. Sú fyrri: Trúin á framtíðar möguleika Nýja Íslands, og sú síðari, þjóðræknisspursmálið.

Hvernig gátu þessar fáir sálir trúað á framtíð Nýja Íslands? Byggðin var í rústum, bæir, skólar og kirkur hálfreistar. Neyð og skortur var á allar hliðar, og þessi fáu býli, sem eftir voru, dreifð meðfram strönd Winnipegvatns, frá Víðinesbyggð til Mikleyjar. Ofan á þetta bættust

hrakspár þeirra, sem burt fluttu og annara, sem aldrei höfðu nýlenduna lítið.

En smátt og smátt rofar til. Nýir innflytjendur koma. Hálfunnu verkin verða fullgerð. Skóginum er rutt burtu. Vegir laggðir, brýr bygðar, trú landnemanna á framtíð hygðarinnar er að rætast, þrátt fyrir hið lengsta og erfiðasta landnám, sem Íslendingar háðu hér vesanhafs.

Nú í dag er trúin á Nýja Ísland orðin að veruleik. Það er sagt að það sé eitthvað við náttúrufegurð þess, sem dragi til sín flesta, sem einhverntíman hafi lifað þar. Hugsa eg að ástæðan sé sú, að það sem maður hefir mest barist fyrir, sé manni kærast. Á fimmtíu ára afmæli byggðarinnar, er flutt það fegursta sveitaminni, sem ort hefur verið. G. J. Guttormsson, maður, sem lifað hefir með Nýja Íslandi í gegnum allar þess raunir, yrkir:

"Hug minn tengir trygðin, þér bygðin mín bjarta,
bezt hefur þú lýst mér og þrýst þér að hjarta.
Sá, sem víkur frá þér, en hjá þér er hálfur.
Heim til sín ei ratar, og glatar sér sjálfur."

Síðari ástæðan, þjóðræknin, var að eg hygg sterkasti þráðurinn, sem batt þetta fólk við nýlenduna. Því þó það færi frá Íslandi, var ástin á Íslandi og íslenzkri tungu, rótgróin í sál þess.

Stjórn Canada hafði gefið íslendingum þessa nýlendu, og í þessu landi frelsisins vildu þeir fá að lifa, sem sjálfstætt þjóðar brot. Hér vildu þeir byggja nýtt Ísland, og viðhalda tungu sinni, því,

"Tungan geymir í tímans straumi
trú og vonir landsins sona.
Hún er list sem logar af hreysti.
Lifandi sál í greyptu stáli."

Þessir íslensku landnemar gátu þá ekki hugsað til, að synir þeirra og dætur, giftust hérlendum konum og mönnum og glötuðu þannig þjóðerni sínu. Var þeim láð þetta af mörgum, sem héldu við þeim hugsunarhætti, að þeir ættu að sameinast, sem allra fyrst, þeim, sem í landinu bjuggu. Verða al-enskir, fleygja frá sér öllum gömlum siðum. Að það væri minkun, að halda við tungu sinni. Ný-íslendingar hafa aldrei skammast sín fyrir "Ástkæra ylhýra málið". Og enn þann dag í dag, læra börnin við hné móður sinnar það fegursta, sem íslenzk tunga á og, eru þau enn ámynt á það, sem bóndi í Geysir brýndi fyrir börnum sínum fyrir 30-40 árum síðan, er hann yrkir:

"Geymið þið arfinn, sem amma ykkar gaf.
Sú arfleifð er dýrmæt og fögur.
Hún flutti til þessa lands Íslandi af
með ættarlands kvæði og sögur."

Síðan að þjóðræknis tilfinningin fór að verða á svona háu stigi hjá okkur Vestur-Íslendingum, stendur Nýúa Ísland betur að vígi en aðrar íslenzkar byggðir, því íslenzkan er enn mikið töluð meðal unglinga þar. Aðstaða kvennfólksins á frumbýlings árunum, var ekki glæsileg. Húsin voru lágir og dimmir bjálkakofar, umhringdir þykkum skógi, þar sem héldust við óþekt villidýr og villimenn. Lýsir G. J. G. hýbílum þessum prýðilega vel í kvæðinn, "Jón Austfirðingur", er hann segir:

"Þar ekkert gull var innan stokks
og enginn sparikjóll.
En allt "frá prjónum upp til rokks"
— og eldavél og stóll.
Þar yfir flet var brekán breitt
og borð við gluggann stóð,
og hreint og prýtt var allt og eitt
á alíslenzkan móð."

Já, þó kofarnir væru litlir og gullið ekkert, var alltaf hægt að taka á móti gestum, að íslenzkum sið, jafnvel heilum fjölskyldum, sem alslausar komu að heiman. Var það talið sjálfsagt, að veita þeim skjól og liðsinna þangað til þær gátu séð um sig sjálfar.

Á sumrin fóru mennirnir burt til að leita sér atvinnu. Var þá ekki um vinnufólk að ræða og tók konan við heimilinu ein, eða með hjálp unglinga, gerði hún öll verk innanhúss og utan. Útheimti það mikla krafta, því lítið var þá oft til að bíta, þó nóg væri til að brenna.

Það, sem mest bagaði fólki á fyrri árum, var hið strjálbygða umhverfi, vegaleysi og læknisleysi. Þegar konur voru einar heima, voru það þær, sem urðu að ganga 8 til 10 mílur til kaupstaðar,—ef kaupstaði skyldi kalla. — Bera vörur sínar á bakinu og eitthvað matarkyns heim, svo sem kaffi, sykur og fleira.

Læknar voru engir, fyrir utan hómeópata sem með sinni takmörkuðu þekkingu, reyndu eftir beztu geta, að lækna þá sem veikastir voru. Engin lærð yfirsetukona var í sveitinni fyrstu árin og urðu því konurnar að hjálpa hver annari og tókst það oftast vel. Sagt er, að ein ráðagóð

kona í Geysir, hafi bjargað lífi konu og barns með því, að búa til tangir úr tveim silfurskeiðum. Hægt væri, ef tími leyfði, að segja margar sögur, þar sem mannslífi var bjargað með Guðs hjálp og áræði þessara kvennhetja.

Suma tíma árs, fengu karlmenn ekki atvinnu, en var mikil eftirspurn eftir vinnukonum. Fóru konurnar þá til Winnipeg og unnu þar við hússtörf, oft allann veturinn. Gengu þær þá þennann spotta, 80-90 mílur, á þungum stígvélaskóm og báru farangur sinn í poka. Með þessu auðmaðist þeim að innvinna sér nokkra skildinga, sem hægt væri að kaupa fyrir lífsnauðsynjar og svo eitthvað smávegis til að gleðja börnin með þegar heim kæmi.

"Hennar fórn, hennar ást
hennar afl til að þjást
skal í annálum sjást
verða kynstofnsins hróður."

Þrátt fyrir erfiðleika og þunga vinnu á heimilum sínum, gáfu þessar konur sér alltaf tíma til að annast um andlega velferð barna sinna. Þó börn fengju ekki mikla mentun, á fyrstu landnámsárunum, var rækt löggð við að þau væru læs og skrifandi, og þeim kend undirstaða kristindómsins.

Var ekkert heimili svo fátækt, að ekki væri til nokkuð af íslenzkum bókum. Snemma var byrjað að stofna lestrarfélög í nýlendunni, svo fólk hefði alltaf eitthvað nýtt til að lesa.

Eftir að skólar voru reistir, reyndu foreldrarnir að láta börnin njóta þeirrar mentunar, sem þau sjálf hefðu þráð í æsku og ekki getað veitt sér. Segir séra Jón heitinn Bjarnason, að fleira námsfólk hafi komið frá Nýja Íslandi en nokkurri annari íslenzki byggð.

Mikla rækt lögðu konur við kirkjuna og velferð safnaðarmála. Er það ekki að furða, því trúin var sterkasti þátturinn í baráttu þeirra. Hefðu þær aldrei farið gegnum lífið nema fyrir sína óbilandi trú á handleiðslu Guðs. Þegar börnin dóu eitt af öðru, eða heimilin eyðilöggðust af flóði eða eldi, var tekin út bókin heilaga og hún lesin til grunna, og við lestur hennar, fanst sá styrkur, sem gaf þessu fólki kraft til að byrja aftur í þeirri trú, að,

"Þeim, sem Guð elskar
samverkar allt til góðs."

Strax var byrjað að stofna söfnuði, og eru elstu söfnuðirnir 69 ára. Störfuðu konur mikið í þágu safnaðanna og mun lúterska kirkjufélagið vera það fyrsta, sem gaf þeim réttindi á þingum sínum og atkvæði í safnaðarmálum. Á það heiður skilið fyrir það. Hafa þær jafnan látið sér þau mál miklu skifta. Starfrækt sunnudagsskóla, annast um söngkenslu fyrir unglinga og í mörgum tilfellum séð um söng við guðþjónustur og síðast en ekki síst, hjálpað að reisa og prýða kirkjur innan bygða sinna.

Í þeim tilgangi, að sameina krafta sína, stofnuðu þær kvenfélögin. Hugðu að þá gætu þær unnið meira í þágu kirkjunnar og að líknarstörfum, því þá, eins og nú, voru margir sem þurfti að líkna.

Fyrsta kvennfélag í Nýja Íslandi var stofnað í Mikley, 1886 og hét Undína. Nokkrum mánuðum síðan, var kvennfélagið Djörfung stofnað, við Íslendingafljót. Svo mynduðu konur á Gimli félagið Framsókn, og síðar Tilraun. 1895, var kvennfélagið, Freyja stofnað í Geysirbygð og, 1904 kvenfélag Árdalssafnaðar.

Fyrst framan af var örðugt fyrir þessar konur að koma saman, en þar sem að fundirnir voru oft eina tilberytingin sem þær höfðu, frá hvers dags störfum, töldu þær ekki eftir sér að ganga margar mílur,—fara stundum úr sokkum og skóm og vaða yfir mestu foræðin,—til að komast á staðinn. Var þá hlakkað eins mikið til að fara á kvenfélagsfund, eins og við hlökkum nú til að fara á þing, B.L.K. (ekki síst þegar það er í Argyle) þó að eg stór efi, að tilhlökkunin yrði mikil ef við þyrftum að fara fótgangandi yfir for og fen, margar mílur.

"Fáir njóta eldanna sem fyrstir kveikja þá," segir Davið frá Fagraskógi. Stofnendur þessara félaga, sem unnið hafa vel og dyggilega öll þessi ár, að velferðarmálum bygða sinna, nutu sannarlega ekki þeirra elda, sem þær kveiktu, og að mínn áliti er það heiður fyrir okkur yngri kynslóðina, ef að við gætum sýnt í verki, að metið sé einhvers allt sem þær lögðu á sig, og jafnvel þó við njótum ekki hvíldar eða skemtunar í Sumarbúðum. B.L.K., vonumst við til, að uppvaxandi kynslóð og niðjar hennar geri það.

Svo tökum við undir með G.J.G. orð landnemans, er hann segir:

"Þó oss endist ei aldur að uppskera það sem við sáum. Sérhvert verk, sem vér vinnum, skal verða niðjunum launað."

---

# Um menntun og kjör íslenzkra kvenna.

**Erindi flutt á ársþingi Bandalags lúterskra kvenna í Argylebygð 1946.**

Herra forseti, heiðraða samkoma, kæru landar:

Eg vil þakka hjartanlega fyrir þann heiður, sem mér er sýndur með því, að vera boðið á þetta mót og sömuleiðis fyrir þá ánægju, sem eg veit, að eg muni hafa af því að koma hingað og sjá og kynnast konunum, sem hér eru staddar.

Verk og dáðir hinna vestur-íslenzku kvenna bera vott um slíkt þrek og manndómsbrag allt frá fyrstu tíð hér, að ósjálfrátt grípur mann löngun til að kynnast þeim persónulega, sem flestum og sem bezt.

Eg hefi valið mér að tala um þetta efni, vegna þess, sem mér fannst, að verið gæti, að ykkur langaði til að heyra um hinar feiknalegu breytingar, er orðið hafa á Íslandi í þessum efnum, sem öðrum, síðan um miðbik 19. aldar. Einstaka ykkar eru e.t.v. fæddar heima og muna þar sín bernsku og unglingsár. Aðrar eiga mæður og ömmur, sem hafa sagt þeim frá uppvexti sínum og vafalaust mun þeim öllum bera saman um tækifæraskort þeirra tíma, til að afla sér fræðslu og menntunar og til að velja sér þá stöðu í lífinu sem menn höfðu löngun og hneigingu til. Var þá bæði, að oft var ávant um fé og eins og kannske ekki síður um almennan skilning og áhuga gagnvart framtíð og heill ungmennanna.

Barnaskólar voru aðeins í hinum stærri kaupstöðum og þó ekki fyrr en seint á öldinni, en að öðru leyti hvíldi fræðsla barna nær eingöngu á heimilum þeirra, undir aðhaldi og umsjón prestanna. Má nærri geta, að óvíða hefir verið um aðra tilsögn að ræða en í lestri, skrift og reikningi, og enda heimilin mjög misjafnlega undir það búin, að veita þó ekki væri meira. Mun því allvíða hafa verið stórlega pottur brotinn í þessu efni. Íhlutun hins opinbera valds gagnvart slíkri vanrækslu kom ekki til greina, fyrr en seint á öldinni–um 1880–og lög um almenna skólaskyldu barna tóku ekki gildi, fyrr en 1907.

Nú, þótt börn hlytu einhverju tilsögn í þessum frumatriðum, bóklegra fræða og eygðu þannig lykil hinnar andlegu menningar, þá var sannarlega erfitt um vik að sækja þann sjó langt fram á miðin, þar sem fram á síðustu áratugi aldarinnar var ekki um aðra framhaldsskóla að ræða fyrir unglinga, en latínuskólann, er bæði var kostnaðarsamur og

ekki einatt hægkvamur þeim, sem menntunar vildu leita.

Algengt var þó, að efnaðri menn sendu þangað syni sína, en fyrir allan þorra ungra manna var ekki um aðra kosti að velja en búskap og sjávarsókn, er þá voru og eru enn aðalatvinnuvegir þjóðarinnar, eða þá vinnumennska, sem flestum mundi nú á dögum þykja hart hlutskifti til lengdar. Mun ekki almennt hafa verið litið svo á, að bóknám þyrfti mikið til slíkra starfa. Já, og enda bezt fyrir búmennina að vera lausir við þessleiðis hluti–bókvitið yrði aldrei í askana látið–svo og allar "nýmóðins tiktínur", ef dæma má eftir þeim viðtökum, er nemendur Torfa í Ólafsdal fengu fyrst í stað, er þeir vildu koma á umbótum í búskapurlægi Íslendinga.

Þó nú þannig væri háttað um aðstöðu ísl. karla til menntunar og stöðuvals, má þó telja, að stórum væri verri hagur kvennanna í þessu tilliti. Það var fyrst, að svo mun lengi hafa gengið, að sú heimilisfræðsla, sem eg áður minntist á, mun fremur hafa verið sniðin við hæfi drengja en stúlkna og fúslegar þeim veitt, meðfram af því að álitið var, að þær hefðu ekkert með hana að gera. Þannig segir Ingunn frá Djúpadal–föðursystir Sveins forseta Björnssonar, greind kona og merk–frá því í minningum sínum, hvernig hún í felum stalst til, að reyna að draga til stafs með fjöðurstaf og kálfsblóði, meðan kennari var á heimilinu, fenginn til að kenna bræðrum hennar undir skóla. Má nærri geta, hvort fleiri hefðu ekki svipaða eða verri sögu að segja, þar sem Djúpadalsheimilið var á sinni tíð orðlagt fyrir myndarskap og manndómsbrag í hvívetna.

En allt um það. Þrátt fyrir alla erfiðleika og litla sem enga tilsögn oft og tíðum, lærðu þær engu að síður flestar að lesa og draga til stafs, og þar með var ísinn brotinn. Fróðleiksfýsn og námsþorsti var þeim í blóðið borið, þott ekki fengi að njóta sín, sakir aldarfars og siðavenja er ekki var auðgert að brjóta á bak aftur. Og þegar á allar ástæður er litið, virðist harla merkileg sú staðreynd, að eftir prestsþjónustubókum 19. aldar er talið, að öll íslenzka þjóðin megi heita læs og skrifandi. Mun svo ekki hafa verið með margar þjóðir á þeim tíma, enda láta útlendir ferðamenn, er fóru um Ísland um þetta bil, undrun sína í ljós yfir þeirri andlegu menningu, sem þar rikti. Stöðuval ungra stúlkna var í rauninni ekkert, að fráskildum örfáum undantekningum, sem höfðu fjárráð og bolmagn til að brjótast í utanferð til að afla sér menntunar og frama. Yfirleitt urðu þær annaðhvort að vera í vinnumensku allt sitt líf

eða gifta sig og munu enda giftingar á þeim tímum hafa verið með þeim hætti, að ekki hafi ávalt frjálst val ráðið.

Við þessa þröngu framtíð var uppeldi þeirra miðað og því eðlilega lögð mest stund á að gera þær sem mestar og beztar húsmæður. Í því skyni var algengt, að ungar stúlkur réðust til dvalar á góðum og myndarlegum heimilum, þar sem þær vöndust reglusemi og þrifnaði og öðru er að góðri hússtjórn lýtur, matreiðslu og e.t.v. saumaskap, og má nærri geta, hvers virði þetta var þeim sem vildi nema, en eðlilega var það aðeins gæfa fárra af fjöldanum að komast á slík heimili menningar og risnu.

Um bóklega fræðslu og annarskonar skólavist yfirleitt var lítið um að ræða. Þó er stofnaður kvennaskóli í Reykjavík þjóðhátíðarárið, 1874, og skömmu seinna í Eyjafjarðar- Skagafjarðar- og Húnavatnssýslum. Unnu þeir afarmikið gagn, svo langt sem þeir náðu til, en bæði var, að sumir þeirra hættu fljótlega og störfuðu stopult, enda einnig lítið húsrými og erfiðar samgöngur gerðu færri kost á að sækja þá en vildu.

Það fór ekki hjá því, að vakningamenn og stjórnmálabarátta 19. aldarinnar kæmu ekki róti á hugsanalíf kvenna gagnvart afstöðu þeirra í þjóðfélaginu og fastskorðuðum venjum, er afmörkuðu lífi þeirra og tilveru harla þröngan stakk, enda fara einkum á síðustu árunum fyrir aldamótin, að koma fram ákveðnar kröfur um aukin réttindi þeim til handa, sérstaklega hvað menntun og opinbera aðstöðu snerti. Þeim kröfum var þó misjafnlega tekið og mættu víða hleypidómum og ósanngirni, en þær áttu sér einnig öfluga og ósérhlífna talsmenn, er skeyttu ekki um hindranir, en stefndu beint að marki, og smámsaman varð áföngunum náð, einum eftir annan.

Skólaganga kvenna fer að aukast, verður bæði fullkomnari og almennari. Sumar, er næg hafa fararefnin sigla út sér til náms og fullkomnunar og er heim kemur, taka þær að kenna og leiðbeina öðrum um það, sem þær hafa séð og heyrt og hinn fyrsti kvenstúdent útskrifast frá Reykjavík rétt fyrir aldamótin. Rétt til embætta höfðu þó konur ekki fyrst lengi vel, en vonum bráðar jukust þó einnig þeirra opinberu réttindi, þannig að árið 1908, eru fjórar konur kosnar í bæjarstórn Rvíkur, og 7 árum seinna, hinn 19. júní, er stjórnarskrárbreytingin staðfest, sú er veitir þeim fullt stjórnmálalegt jafnrétti á við karlmenn–kosningarétt og kjörgengi. (Til gamans má geta þess að fyrst var kosin íslenzk kona á þing árið 1922, Ingibjörg H. Bjarnason skólastjóri.)

Á þessum árum, árunum fyrir og eftir aldamótin, eru á sjónarsvíðinu ýmsir þeir menn og konur, sem mest og bezt hafa barist fyrir aukinni menntun, réttindum og bættum kjörum kvenna, og háðu þar stranga og fórnfúsa baráttu gegn skilningsleysi, afturhaldssemi og hefðbundnum hégómaskap í háttum og venjum, ekki eingöngu eða alténd hjá karlmönnum, heldur jafnframt og engu að síður hjá þeirra eigin kynsystrum, sem ekki áttuðu sig á köllun tímans og kröfum aukinna framfara. "Orðugasti hjallinn" á þessari baráttu braut, mun raunverulega hafa verið, að sigrast á hræðslu þeirra og tortryggni, gagnvart ýmissi nýbreytni er varð hneykslunarhella hinna fastheldnu og skilningssnauðu.

Við sem nú erum ung og höfum alist upp við meira frjálsræði, en nokkur önnur ung kynslóð á undan okkur, munum sennilega aldrei fá metið til fulls það starf og þær fórnir, er lagðar hafa verið í sölurnar, svo að eftirkomendurnir mættu hljóta betri skilyrði vaxtar og þroska, en feður þeirra og mæður, forfeður og formæður.

Vegna þess, að nú fer andi framfara og stórra hugsana svo hröðum eldi um Ísland, að það sem fyrir 20-30 árum sýndist fjarstæða ein og hugarórar flestum mönnum, er nú á dögum talið jafneðlilegt og sjálfsagt og maðurinn þarfnast hvildar og næringar.

Unga fólkið á Íslandi–konur jafnt sem karlar, hefir í dag jafngóða aðstöðu til menntunar og frama, sem hjá öðrum menningarþjóðum heimsins og jafnframt hafa lifskjör batnað og lífsskilyrðin aukist að stórum mun.

Svo að eg haldi mér að mestu við kvenfólkið–annars er sem sagt harla lítill munur á aðstöðu ungra kvenna og karla til menntunar og stöðuvals bæði s.k.v. lögum landsins og hinum óskráðu lögum almenningsálitsins–þá eru þvílíkar breytingar orðnar á hag þess s.l. 50-60 árin, að eg efast hreint um, að litla stúlkan frá 1870-80, mundi kunna við sig fyrst í stað, ef henni skyti nú allt í einu upp í hinni nýju veröld og hún ætti að fara að vinna og leika sér með börnum síðustu 10 ára, en vonandi myndi hún venjast því fljótlega og þykja aðeins gott til breytingarinnar koma.

Eftir að barnaskólagöngu er lokið, sem mun vera mjög líkt háttað og hér vestan hafs, hefir til þessa hinni almennu skólaskyldu verið raunverulega lokið, en langflestir unglingar, sem ráð hafa nokkur á, fara einatt á 2-4 ára unglingaskóla–alþýðu og gagnfræðaskóla, sem mundu að sínu leyti svara til "highschools" hér. Annars er nú á döfinni og senni-

lega nýlega staðfest ný skólalöggjöf, er skyldar unglinga til 2 ára framhaldsnáms frá barnaskóla eða til 16 ára aldrurs. Þegar nú þessum undirbúningi er lokið, þá kemur til þeirra kasta, að velja sér lífsstörf og má þá sannarlega segja um ungu stúlkurnar núna, að sá á kvöl sem á völ, því að starfið er nóg, og þjóðin þarfnast þess, að allir hennar kraftar séu sem best nýttir. Fyrir þeim flestum liggur húsmóðurstaðan, fyrr eða síðar, en ungar stúlkur á skólaaldri hugsa yfirleitt ekki svo langt fram og enda þótt, þá vilja þær a.m.k. flestar hverjar búa sig undir að geta tekist eitthvert sjálfstætt starf á hendur, því að sá andi ríkir með þjóðinni, að slík sjálfsmeðvitund um eigin getu, sé affarasælust hverjum manni. Verslunarskólarnir og menntaskólarnir báðir, einkum Reykjavíkurskólinn, hafa á síðustu árum haft fullt svo mikla aðsókn stúlkna, sem pilta, og háskólanám kvenna fer mjög í vöxt, þótt meiri hluti þeirra hætti að loknu lægra prófi og taki til starfs ýmist hjá öðrum eða upp á eigin spýtur.

Iðnskólinn er æðimikið sóttur af stúlkum, sömuleiðis kennaraskólinn og ýmsir aðrar sérskólar s.s. hljómlistarskólinn, handiðaskólinn og garðyrkjuskólinn, og er þar sömu sögu að segja, að margar þeirra kvenna, er þaðan útskrifast taka að stunda sína sérgrein, sjálfstætt eða undir stjórn annarra.

Ýmsar leggja fyrir sig hjúkrun og mættu reyndar vera miklu fleiri, því að hörgull er á hjúkrunarkonum, en bæði er, að námið og starfið er erfitt og ekki nógu vel launað, miðað við önnur störf, er minni ábyrgð fylgir.

Þá eru enn ótaldir húsmæðraskólarnir, sem telja má sérskóla kvenfólksins, svo sem sjómanna og bændaskólar teljast sérskólar karlmannanna.

Hlutverk þeirra og starfssvið er erfiðara og þýðingarmeira, en virðast má í fljótu bragði, þegar á það er litið, að þeir hafa á hendi, fremur en nokkrar aðrar stofnanir, að búa ungu stúlkurnar undir ábyrgðarmestu og vandasömustu störfin, sem fyrir þeim liggja,—að verða húsmæður og mæður.

Á þessum tímum hraða og öryggisleysis, jafnframt þeirri sjálfsréttar meðvitund, sem ungt fólk ber nú í brjósti, virðist húsmóðurstaðan hreint ekki eftirsóknarverð fyrir ungar sjálfstæðar stúlkur. Henni fylgir á vissan hátt ófrelsi og þvingun og því miður oft og tíðum meira erfiði og óreglulegri vinnutími en æskilegt væri. Það verður því fyrst og fremst húsmæðraskólanna að fá stúlkurnar til að laðast að húslegum störfum, finna ánægju og unað í starfinu og meta það til menningargildis, en ekki til

peninga. Og það er mín persónulega trú, að þetta hafi húsmæðraskólunum á Íslandi tekist öllum vonum framar. Skólarnir eru vel sóttir, áhrif þeirra breiðast um landið og flestum vel menntuðum stúlkum finnst nú orðið menntun sinni vera ábótavant, nema að þær kunni eitthvað til hússtjórnar.

Flestir leggja þeir höfuðáherzlu á verklegt nám, matreiðslu, saumaskap, vefnað, svo og góða umgengni og þrifnað í hvívetna og eiga þeir sannarlega sinn þátt í þeim menningarblæ, er ýmsum hinum framandi manni finnst svo til um á íslenzkum alþýðuheimilum.

Íþróttalíf kvenna er afarmikið á Íslandi og fer sívaxandi. Leikfimi er kennd í flestum barnaskólum og ekkert barn getur lokið barnaskólaprófi, nema það kunni að synda.

Í unglingaskólunum, alþýðu og gagnfræðaskólunum er hvorttveggja skyldugrein og lögð afarmikil stund á það og þar á ofan eru ótalmörg íþrótta og ungmennafélög víðsvegar um landið, sem halda uppi og skipuleggja allskonar íþróttakennslu, s.s. í skíða og skautahlaupi, glímum, leikfimi, sundi, útiíþróttum og ýmsu fleiru, enda eiga Íslendingar furðulega góða íþróttamenn á ýmsum sviðum, bæði konur og karla, sem vakið hafa eftirtekt víða utanlands sem innan.

Kvenfólkið er ekki síður áhugasamt um þessi mál en karlmennirnir og samvinna þeirra í félagsskapnum skapar gagnkvæman skilning og tiltrú hvors aðilja um sig.

Íþróttakennaraskóli hefir nú starfað fullan áratug og útskrifað marga kennara, konur og karla, sem síðan fara út um bæi og byggðir og vekja fólk og hvetja til starfs og dáða. Mér verður svo tíðrætt um hina vaxandi íþróttastarfsemi, vegna þess, að eg álít, að fátt hafi aukið meira þrek og manndóm íslenzkrar æsku, en einmitt samræmdar iðkanir íþrótta úti og inni. Það vekur áhuga fyrir hollu og heilbrigðu lífi, veitir einstaklingnum ótrúlegan unað, glæðir félagskenndir hans og treystir hjá honum samábyrgð og drenglyndi. Heilbrigðisástandið hefir einnig stórum batnað hin seinni ár og meðalaldur hækkað og má vafalaust eins mikið þakka það hollari lifnaðarháttum almennings sem auknum læknafjölda með meiri sérmenntun.

Það er gaman að sjá hina hraustlegu hópa íslenzks æskulýðs þyrpast frá bæjum til fjalla, helgi eftir helgi vetur og sumar, í stað þess að rangla um götur hæjanna og soga í sig svælu og ryk þeirra, auk annars, sem þeir hafa miður heppilegt upp á að bjóða.

reitnum friðsæla í byggðinni, þar sem þau störfuðu svo vel og lengi. Samferðafólkið allt, þakkar og kveður og biður þeim blessunar drottins. Dætur, tengdadóttir, tengdasynir og afkomendur allir, geyma sjóð dýrmætra endurminninga, og þakka hinni látnu móður fyrir all og allt.

Guð blessi okkur öllum minningarnar um hana, sem var prýði sinnar byggðar, leiðtogann og starfskonuna, Hólmfríði Ingjaldson.

**Ingibjörg J. Ólafsson.**

---

## Mrs. GUÐFINNA THORDARSON
## 1861 – 1946.

Af konum þeim, sem 1916 stofnuðu kvenfélagið Fjallkonan, en sem 1923 varð kvenfélag Herðubreiðarsafnaðar, er nú enn ein til grafar gengin, Guðfinna Thordarson, eftir langt og nytsamt og gott æfistarf. Síðastliðin vetur varð hún að líða mikil veikindi, fyrst á sínu gamla hemili í grend við Langruth, Man., hjá syni sínum Gordon Thordarson og konu hans og síðar á St. Boniface sjúkrahúsinu.



Mrs. Guðfinna Thordarson

Mrs. Thordarson var kona félagslynd og hafði ánægju af því að taka þátt í starfsemi og fundum kvenfélagsins og jafnan var júlímánaðar fundurinn haldinn á heimili hennar. Var þar þá jafnan vel gestkvæmt af félagskonum og öðrum gestum. Áhuga hafði hún einnig mikinn, ásamt manni sínum, á öllum velferðarmálum bygðar sinnar, en þó sérstaklega á málum safnaðarins og bókafélagsins og hélt hún áhuga alltaf meðan heilsa og kraftar leyfðu.

Mrs. Thordarson var stillingarkona og hæglát, en þó glaðlynd, góð kona, móðir og húsmóðir og barnahóp sínum sýndi hún ávalt mikla ástúð og umhyggju, öll reyndust þau henni líka mjög vel og gerðu allt fyrir

hana sem í þeirra valdi stóð þegar heilsa og kraftar tóku að þverra.

Mrs. Thordarson var fædd 21. ágúst 1861 í Hraungerðishrepp í Árnessýslu. Hún kom til Canada 1886 með foreldrum sínum, Tómasi Ingimundarsyni og Guðrúnu Eyjólfsdóttur og settust þau að í grend við Churchbridge, Sask. Hún giftist 1890 Jóni Thordarson (dáin 1943) og með honum og fjölskyldu sinni fluttist hún 1894 til Langruthbygðar og bjuggu í þeirri bygð upp frá því. Bæði létu þau sér mjög ant um að sjá vel um bú sitt og börn og lánaðist það vel og komust í góð efni.

Af börnum þeirra, eru fimm á lífi, þrír synir og ein dóttir í grend við Langruth: Albert; Freeman; Gordon; Victoria (Mrs. Valdimarson) og Bjarni skólakennari í Brandon, Man. Tómas féll í fyrra veraldarstríðinu. Gústaf og Guðjón létust á fullorðins aldri og einn drengur á fyrsta ári. Eina fósturdóttur áttu þau sem Jónína Guðrúna heitir (Mrs. Crank) og á heima í Deloraine, Man. Hún er systurdóttir Mrs. Thordarson, dóttir Mr. og Mrs. Ingimundur Ólafsson að Reykjavík P.O., Man. Unni hún fósturforeldrum sínum sem góð dóttir. Auk barnanna syrgja Mrs. Thordarson tvær systur, Mrs. B. Johnson, Langruth, Man. og Mrs. Guðrún Bardal, Winnipeg og fjöldi vina því öllum sem þektu hana þótti vænt um hana.

Blessuð sé minning hennar.

**Lena Thorleifson.**

---

## SIGRÚN JÓNÍNA JÚLÍUS.

**f. 11 maí 1862 – d. 14. maí 1946**

Eg hefi verið beðin að skrifa um þessa merku íslenzku látnu konu, til birtingar í Árdís, og þó um hana hafi þegar verið ritað vel og myndarlega í Lögbergi, þá gat eg naumast neitað að verða við þeirri bón, en það sem eg segi, verður frekar frá prívat sjónarmiði talað en almennu.

Eg kyntist frú Jónínu Júlíus snemma á árum hér í Winnipeg: Var hún þá í blóma aldur síns, glæsileg að vallarsýn og með fríðustu konum hér um slóðir, álits. Það var því síst að furða, þó hún drægi athygli að sér. En sú athygli var ekki aðeins bundin – ekki einusinni fyrst og fremst, bundin við vallarsýn eða andlitsfegurð, heldur svip, yfirbragð, sem vallarsýnin og andlits fegurðin voru aðeins drættir í. Á bak við þá

eiginleika stóð fögur, ylrík og þrótt mikil sál sem réði samræmi svipsins og áhrifum.

Þetta var frú Jónína við fyrstu sýn. Þegar maður kyntist henni nánar voru ávextirnir af þessum eiginleikum hennar auðfundnir í samtali við hana og auðséðir í verkum hennar. Maður dáðist að hugareining þessarar konu, hvað hún var heilsteypt. Hugurinn var aldrei klofinn, eða veill, og eining fullkomin á milli hugar og máls, og hugur hennar átti heima sólarmegin.



Sigrún Jónína Júlíus

Eg sagði áðan að sál frú Jónínu hefði verið ylrík. Hún var líka hrein og hjálpfús. Margir, eg held flestir, af hinum fyrstu Íslendingum sem heima áttu hér í Winnipeg séu nú horfnir sjónum vorum, en þeir sem eftir eru og þektu til hér á frumbýlingsárunum, munu minnast Jónínu Júlíus: Þegar að hún gekk á meðal mállausra og bláfátækra landa sinna hér í Winnipeg til að vitja þeirra og hjúkra þeim sem sjúkir voru. Hvernig að hún um langt skeið var meðalgangari á milli sárþjáðra landa sinna og læknishjálpar sem hún, ástundum, stóð sjálf straum af. Hvernig að hún oft í misjöfnu veðri, bæði á nótt og degi fór fótgangandi langar leiðir til þess að ná í læknishjálp fyrir févana og mállausa landa sína þegar í nauðir rak fyrir þeim. Hvernig að hús hennar og þeirra hjóna stóð opið þegar Íslendinga bar að garði þeirra og hversu þeir voru þar velkomnir og að það var uppbúið auka rúm fyrir þá sem hvergi áttu heima.

Eg hefi oft furðað mig á einu í sambandi við íslenzkar konur sem til Vesturheims fluttu, á fyrri árum, frá Íslandi. Þar heima voru þær afskiftalausar af opinberum málum: héldu sig nálega undantekningarlaust innan verkahrings heimila sinna. En þær eru ekki fyrr komnar vestur um haf, til Ameríku, en að þær gjörast forgöngukonur í mikils-

varðandi málum hinna vesturfluttu Íslendinga. Með öðrum orðum, þær eru ekki fyr komnar í hið nýja fósturland, en að þær taka að sér ábyrgðina á menningarlegri þróun hinns innflutta fólks, að jöfnu við menn sína. Þær bindast hér samtökum til þess að annast fólk af þjóð þeirra, sem erfitt áttu og leiðbeina þurftu, og það voru margir. Þær mynda félag til þess að vernda íslenzkar bækur og greiða götu þeirra sem engar höfðu til lesturs. Þær höfðu gagngjör afskifti af því að innflutt íslenzkt fólk, lærði landsmálið. Þær gengust fyrir stofnun kristilegs félagsskapar og áttu þátt í stofnun sunnudagaskóla og styrktu hvortveggja með ráði og dáð. Ein af slíkum konum og ein þeirra fremstu í allri þessari menningar starfsemi var frú Jónína Júlíus. Í því verki naut hún sín vel, því hún var gædd þeim eiginleikum og hæfileikum sem gjörði það starf hennar bæði farsælt og áhrifamikið. Menn treystu henni af því að hún var einlæg. Menn trúðu henni af því að hún var hreinskilin og menn fylgdu henni að málum af því að hún var skýr, staðföst og ráðholl.

Eg gæti haldið áfram að skrifa langt mál um þessa glæsilegu konu og ekki sagt allt það sem ætti um hana að segja. En rúmið í Árdís takmarkar mál mitt, en áður en eg hætti vil eg minna á nokkrar ljóðlínur, eitt erindi sem ort var til minningar um aðra mæta konu, en sem getur með sanni átt við minning frú Jónínar:

"Heita eining huga og máls,
hjarta gulls og vilji stáls,
ljósið trúar, ljósið vona
lífs þíns minning yfir brenni.
Þú sem unnir ei til hálfs
auðnu landsins dætra og sona,
blómsveig kærleiks bjart um enni
berðu hátt. Nú ertu frjáls
dyggð og tryggð þitt dæmi kenni.
Dána! Þú varst **íslenzk kona.**"

E.B.

Þannig hugsa eg um frú Jónínu Júlíus og þannig var myndin sem hún skildi eftir, þegar hún kvaddi.

Þau hjónin Jón og Jónína Júlíus voru á meðal stofnenda Fyrsta lúterskra safnaðar í Winnipeg og tilheyrðu honum til dánardags. Mrs. Júlíus dó á heimili dóttir sinnar (Mrs. B. S.) Floru Benson, 757 Home St., Winnipeg, Man. þann 14. maí 1946.

**J.J.B.**

## CLARA FREDA EINARSON.

Hún var fædd á Þýzkalandi 2. mars 1902. Kom til Canada þriggja ára að aldri. Fereldrar hennar settust að í Camp Morton, Man., en fluttu brátt þaðan og námu land í Árnesbygð. Clara fór að vinna fyrir sér 13 ára gömul. Þegar hún var 15 ára fór hún í vist til Ingibjargar Magnússon á Eyólfsstöðum í Hnausabygð, sem reyndist henni sem góð móðir. Þar lærði hún að tala íslenzku. Þaðan fermdist hún. Oft minntist hún á, að öll sú fjölskyldu hefði reynst sér svo undur vel.



Clara Freda Einarson

Hún giftist 22. apríl 1924, Halldóri Jónasson, Einarson, frá Vatnsnesi í Árnesbyggð og þar settust þau að og bjuggu ávalt síðan. Þau eignuðust níu börn. Átta þeirra lifa móður sína. Hin kalda hönd dauðans svifti hana lífi mjög snögglega, 20. des. 1945. Var hún þá að undirbúa börnin sín fyrir blessuð Jólin. Læknir var kallaður samstundis, en eftir nokkra klukkutíma var hún liðið lík.

Skömmu eftir að hún giftist, gekk hún í kvenfélag Árnessafnaðar. Þrátt fyrir hennar mikla starf í þágu heimilisins, vann hún að öllum félagsstörfum meira en kraftar leyfðu. Öllum sem þurftu hjálpar með, var hún sannarleg hjálparhella, var alstaðar boðin og búin til að létta byrðar og auka gleði.

Hún var lögð til hinstu kvíldar á aðfangadag jóla. Voru það þung spor, að fylgja henni til grafar og vita stóra barnahópinn eftirskilinn móðurlausan. Séra Skúli Sigurgeirson jarðsöng.

Félagssystur hennar þakka henni af hjarta samstarfið, hjálpsemi og alúð. Þær munu ávalt muna þýzku konuna, sem talaði svo vel íslenzku, sem elskaði svo heitt kirkju sína, og sem naut sín svo vel með þeim.

Við kveðjum hana með orðum skáldsins góða:

"Far þú í friði, friður Guðs þig blessi.
Hafðu þökk fyrir allt og allt.
Gekkst þú með Guði, Guð þér nú fylgi.
Hans dýrðarhnoss þú hlóta skallt."

Blessuð sé minning hennar.

**Jóhanna Thorkelsson.**

---

## ÞÓREY og SIGRÍÐUR ODDLEIFSSON.

Sigríður Stefania Oddleifsson
f. 18 maí 1862 – dáin 17. september 1943.

Thórey Oddleifsson
f. 2. júlí 1867 – d. 15. október 1945.

"Þegar fjólan fellur bláa
það fallið engin heyra má.
Enn ílmur horfinn innir fyrst
hvers urtabygðin hefur mist."

Þessar línur koma mér í hug þegar eg hugsa um systurnar Þóreyu og Sigríði Oddleifsson. Þær vóru dætur hjónanna Stefáns Þorsteinsonar og Sigurbjargar Sigfúsdóttur; komu þær ungþroska til þessa lands, giftust bræðrunum Gesti og Stefáni Oddleifsson. Heimilin þeirra standa nálægt hvort öðru meðfram þjóðbraut vestanvert í Geysisbyggð í Nýja Íslandi. Sigríður flutti þangað stuttu eftir aldamót eftir hið sviplega fráfall manns hennar og sona er létu líf sitt í húsbruna þegar heimili þeirra í Hnausabyggð brann.

Heimilið hennar sem nefnt er Gullbringa var einkar ríkt af góðvilja til allra. Húsfreyjan og synir hennar vóru á meðal þeirra kyrlátu í landinu, er alstaðar komu fram til góðs. Leið Sigríðar lá ávallt til þeirra sem hún þráði að gleðja og hjálpa. Hin þunga lífsreynsla, sem henni hafði fallið í skaut gerðu hugann viðkvæman og gljúpan og samúðarfullan með öllum sem í skugga sátu.

Þórey og Gestur Oddleifsson bjuggu í Haga í Geysirbyggð, frá fyrstu landnámsárunum til dauðadags. Um þau bæði hefur verið skrifað ítarlega

áður. Þórey var í hópi þeirra kvenna sem blessun er að mega kynnast. Á hinu umfangsmikla heimili var hún ávallt heimilisprýði, umhyggusöm og ástrík en um leið stjórnsöm og dugleg. Börn þeirra voru níu, tengdabörn jafn mörg og stór hópur barnabarna, sem hún tók sér að hjarta. Einnig fóstruðu þau Sigríði Kristjánson frá bernsku til fullorðinsára, hún og hennar afkomandur voru innilukt í hinum sömu móður örmum.—Þegar eg hugsa um Þóreyju dáist eg mest að jafnlyndi hennar og glaðlyndi, um leið og mér er minnistætt hve fundvís hún var á það góða í fari allra sem hún kyntist. — Hún var ein af okkar miklu og góðu landnámskonum í Nýja Íslandi og okkur finst sæti hennar verði ekki auðveldlega fyllt.

Eg sé þær í anda systurnar eins og eg sá þær svo oft hin síðari ár, hlið við hlið, eins og hver um sig vildi umvefja hina með kærleika sínum. Eg sé þær saman eins og svo oft þegar hin fjölmenna fjölskylda kom saman á gleðimót sem tilheyrði þeim einum. Eg sé virðingu og umhyggjusemi barna og skyldmenna fyrir þessum göfugu þreyttu mæðrum. Og mér finst eg sjái þær í anda á eilífðarströndum hlið við hlið sameinaðar eiginmönnum sínum sem þær sýrgðu svo sárt. Félagssystur þeirra og ástvinir allir þakka samfylgdina—gæðin—glaðlyndið—hreina hugarfarið og kveðja þær og blessa minninga þeirra.

**Ingibjörg J. Ólafsson**

---

# SKYRSLA FORSETA.

Kæru félagssystur og gestir:—

Á þessu tuttugasta og öðru ársþingi, vildi eg í stuttu máli gera grein fyrir starfi liðins árs.

Þetta ár hefur verið eitt af hinum farsælustu starfsárum félags vors. Hressandi og hlýr vorblær hefur leikið um starfið. Fundir hafa verið velsóttir og skemtilegir, áhugi og eining hefir ríkt og innileg þrá að koma sem mestu til leiðar.

Samkvæmt samþykt vors síðasta þings, bar fulltrúi Bandalagsins á síðasta kirkjuþingi fram þá ósk sunnudagaskólanefndar, að mega vera í samvinnu við trúboðsnefnd kirkjufélagsins, með að koma á fót sunnudagaskólum í prestlausum bygðum, sem yrðu starfræktir yfir sumarið, að minsta kosti. Nefnd vor beið eftir, að heyra frá trúboðsnefndinni, en

hikaði við að gera nokkuð upp á eigin ábyrgð. Sumarið leið, án þess nokkuð væri gert. Af alhug þráir Bandalagið, að koma einhverju til leiðar á þessu svæði, og vonar, að framtíðin géfi ný tækifæri til þess.

Ekki mun nokkur sýnilegur árangur hafa orðið af þeirri tilraun síðasta þings, að vekja áhugs fyrir kvenndjáknastarfi á meðal fólks vors. Sem eðlilegt er, tekur slíkt langan tíma. Á þessu ári hóf stúlka starf í Saskatoon, undir leiðsögn, Dr. Willison. Er hún kvendjákni í þjónustu U.L.C.A., Miss Gilström að nafni. Vonum vér eftir tækifæri að kynnast henni á þessu sumri.

Bandalagið hefir átt tvo fulltrúa á fundum alsherjar bindindisfélags þessa fylkis, sem undanfarin ár, skýrsla þeirra verður flutt á þessu þingi.

Ársrit félagsins var nokkuð stærra en vanalega, þetta síðasta ár, var ritið æði mikið kostbærara, en þó selt fyrir sama verð. Fjárhagur ritsins verður skyrður af ráðskonu blaðsins, Mrs. Guðrúnu Johnson. Þakka eg ráðskonum blaðsins, þeirra ágæta starf. Sömuleiðis með ritstjóra mínum, Mrs. Margréti Stephensen. Vér söknum þess allar, að hún er fjærverandi á þessu þingi. Sæti hennar er aldrei auðfylt.

Aðal starf þessa árs hefir verið sumarbúðastarfið. Í dag eru rúmir átta mánuðir síðan eignarbréf var undirskrifað, fyrir tólf ekrum af landi. Nú er langt komið að byggja fimm allstórar byggingar. Brunnur hefur verið boraður. Mikið af innanhúsmunum keypt. Margar ferðir hafa sumir meðlimir nefndanna tekið sér í þágu þessa verks. Út í það fer eg ekki nákvæmlega, þar sem nákvæmt yfirlit verður gefið í skýrslum féhirða og forstöðukonu sumarbúðanefndarinnar.

Fyrir nokkru átti eg tal við aldraðan enskan prest, sem var mjög hugfanginn af þeim möguleikum, sem þetta starf ætti í sér fólgið. Minntist hann á, hve auðvelt þetta hlýti að vera, þar sem yfir tuttugu félög voru í Bandalaginu, sameinuð í áhuga. Þar að auki margir gjafmildir einstaklingar, sem áhuga hefðu fyrir þessu. Eg samsinti það ósjálfrátt, og brosti með sjálfri mér.

Mér hefir fyrir löngu skilist, að aldrei hefir verið gerð tilraun til, að ryðja veg fyrir neinni nýrri hugsjón, án þess, að ýmsir hafa verið áhugalitlir, og naumast vinveittir. Aðrir í beinni mótstöðu, aðrir vantrúaðir á framtíðar möguleikana. En svo er hópur, sem stendur þétt saman með bjargfasta trú og brennandi áhuga. Undir trúmenzku og styrkleika þeirra, er árángurinn kominn. Eg hef persónulega aldrei efast eitt augnablik, um þá miklu möguleika, sem þetta framtíðar starf gæti

átt, ef Guð gæfi, að eingin öfl eyðileggingar gætu dregið úr því kraft og styrk.

Á þessu vori var sú ákvörðun gerð, að leggja út á djúpið með að byggja, þó tvísýnt væri um efni og ekki nægir peningar í sjóði. Enn sem komið er, hefur verið hægt að standa í skilum. En nú er farið að lækka í sjóðunum. Vér erum ekki í neinum vafa um, að allir erfiðleikar verða yfirstignir, og allt fer vel. Þó þeir sem sá, sjái aldrei uppskéruna, þá er það víst, að hún kemur. Þeir, sem hennar njóta, munu aldrei vita um þreytuna, né erfiðleikana, og það er bæn vor, að þeir megi aðeins njóta gleðinnar, sem vér höfum notið. Það er innileg bæn allra, sem að þessu hafa starfað, að í þessum fyrirhuguðu sumarbúðum, megi þúsundir færast nær frelsara vorum, sem vér í veikleika leitumst við að þjóna.

Með fáum orðum vil eg minnast á starfskrá sumarsins. Búðir verða opnaðar fyrsta júlí. Meðlimum Bandalagsins er boðið að koma og hjálpa til, að koma öllu í lag, fyrstu þrá dagana. Næstu daga verður prestamót og sunnudagaskólakennaramót. Svo kemur sunnudagur, 7. júlí, þar sem sumarbúðirnar verða vígðar til starfs. Þar mun verða margmenni samankomið. En umfram allt vildum vér biðja að þar mætti verða andleg hrifning.

Enn sem komið er hefir ekkert verið gert að því að **biðja** fólk að senda börn eða unglinga til dvalar í sumarbúðirnar í sumar. Þar verður tekið á móti þeim, sem koma vilja, meðan pláss leyfir. Þar verða öll skilyrði til þess, að þeim geti liðið þar vel. Skýrslur sína, að aðeins 5% barna í Canada geta notið sumardvalar í "camp". Mörg hundruð börn geta aldrei komið að vatni allt sumarið. Ef okkar fólk hefir ekki löngun til að senda sín börn, veit eg að margir aðrir nota tækifærið. Fyrirspurn hefir mér borist frá félögum, hvort hægt væri að taka á móti fátækum börnum, sem þau vildu borga fyrir. Guð gefi að með tímanum getum vér tekið á móti mörgum þeirra, sem mest þurfa þess með. Ekki þurfum vér að kvíða, að allt það pláss sem til er verði ekki fylt.

Á þessu þingi verður nauðsynlegt að kjósa milliþinganefnd, til að yfirfara lög Bandalagsins, því breyta verður fyrirkomulagi með fastarnefndir, nú, þegar þetta starf er að komast á fastan grundvöll – "Board of Directors" – verður að kjósa á næsta þingi, sem lítur eftir allri starfrækslu sumarbúðanna.

Svo þakka eg ágæta samvinnu þessi tvö ár, sem eg hef verið við stjórn að þessu sinni. Sameiginlega þökkum vér allar fyrir þann styrk,

sem Guð hefir gefið oss til starfa. Honum einum vildum vér gefa dýrðina af þeim árángri sem orðið hefir.

Vér minnumst þess að lokum, að þetta er vort fyrsta þing síðan friður komst á. Þegar vort hið síðasta þing var haldið, var stór hópur ungra manna, að búa sig að heiman á ný, til að taka þátt í lokaþætti hins ægilega ófriður við Japan, og kvíði fylti hugann sem fyrr. Þó hin stórkostlegu eftirköst stríðsins séu nú í algleymingi og allt virðist reika á reiðiskjálfi, þó hungur og hörmungar geysi, finnum vér þó birtu og yl frá friðarsól, sem brátt mun skína í heiði. Guð gefi, að félagi voru megi auðnast að leggja eitt lítið sandkorn í hina miklu byggingu framtíðarinnar,—alheims musterisins, sem mun rúma allar þjóðir heims, sem eina heild, þar sem finna megi, "Gróandi þjóðlíf með þverrandi tár, sem þroskast á Guðsríkis braut."

**Selkirk, 30. maí 1946,**

**Ingibjörg J. Ólafsson.**

---

# Bindindismál.

Forseti og félagssystur:

Sem erindisreki ykkar fyrir bindindisstarf í Manitobafylki leyfi eg mér að leggja fram eftirfylgjandi skýrslu. Er mér það mikið gleðiefni að mega flytja það mál hér í Argylebyggð þar sem vínbannshliðin vann sigur í vínbanns kosningu síðastliðið ár. Er það góð fyrirmynd.

Drykkjuskapur í Canada hefir aukist á 10 árum. Sterkir drykkir yfir 450%, malt drykkir 300%, og kornið sem brúkað hefir verið til bruggunar 300% að vigt. Og það á þeim tíma sem fólkið sveltur um allan heim.

Þjóðin í Canada eyddi fyrir áfengi árið 1945, $365,000,000. Það gerir meir en $300. á hvert mannsbarn í landinu. Á sama tímabili borgar Canada $60,000,000 fyrir skóla lærdóm, en $50,000,000 til kirkna og kristindóms. Á þessu tímabili voru teknir fastir 40,000 fangar undir áhrifum áfengis í Canada. Hryllilegustu afleiðingar þessa drykkjuskapar, er siðferðissjúkdómurinn. Og læknar segja að frá 70 til 85% af þeim sjúkdómi séu afleiðingar áfengis brúkunar. Menn og konur missi vald á sínu sjálfstæði.

Þjóðin í Manitoba-fylki, eyddi árið sem leið, $20,400,000 fyrir áfengi og ágóðinn varð $4,380,110. 60% af öllum yfir 21 árs að aldri í Manitoba hafa keypt leyfi til að kaupa áfengi, kvenfólk með talið. Það er sá partur mannkynsins sem vínsalar byggja á í framtíðinni, því ef mæður leyfa áfengi á heimilum sínum, þá ná þeir haldi á börnunum.

Hvað er hægt að gera við þessa illræmdu áfengis verzlun? Áfengi er versti óvinur mannkynsins.

1. Mín skylda sem borgari landsins er augljós, nokkur mök við svona verzlun sem eyðileggur velferð þjóðanna, ætti að vera fordæmd.

2. Á kristnu fólki ætti að liggja tvöföld skylda, hvers einstaklings að sýna fyrirmynd, með framkomu sinni, svo það geti haft áhrif, jákvæð en ekki neitandi. Getur kristin manneskja sett fyrirmynd í þessu efni, með öðru en sjálfsafneitun? Og sýna í verkinu, að hún elski náungann sem sjálfa sig? Hvernig getur þú bruggað eða veitt áfengi á þínu eigin heimili, og svo stært þig af því, hvað dásamlega þér hafi tekist að eyðileggja fjölskylduna?

3. Það er kominn tími fyrir kirkjuna að berjast á móti þessari verzlun. Ekki aðeins sem útbýting þessa eiturs, heldur líka sem verkfæri til að veikja og eyðileggja sál þjóðanna. Almenn uppreisn á móti þessari verzlun verður að koma með meiri alvöru og kröftugri en nú er. Þessi værð og svefn dugar ekki lengur. — Þriggja manna nefndin sem var sett á kirkjuþingi í fyrra, lagði það til: "Kirkjufélag vort veitti bindindismálinu fylsta stuðning sinn". Hvað hefir svo verið gert í því síðan? Hvað hafa margar bindindisræður verið fluttar?

Takið þið til fyrirmyndar landið Chile í Suður Ameríku, þar sem hvert einasta myndasýningar leikhús, verða að sýna bindindis myndir, efnafræðislegar á móti áfengi. Og eins Rússland lætur sýna á sínum leikhúsum myndir um skaðvæn áhrif áfengis á mannslíkamann. En á sama tíma er leikhúsum hér leyft að sýna myndir af dásamlega fallegum yngismeyjum með sígarettu í annari hendinni, en vínglas í hinni.

Bandaríkja forsetinn, Mr.. Truman, gaf út þá skipun fyrir stuttu, að áfengis bruggarar yrðu að skera niður um 50% alla notkun á korni til bruggunar. Þessi áhrif komu frá bindindis sinnuðu fólki. En bruggarar sögðu ekki orð. Fæðan er guðs gjöf, og þegar þjóðir heimsins svelta, þá er synd að nota kornið til að brugga áfengi.

Bandaríkin eyddu $7,900,000,000 fyrir áfengi á síðasta ári, og settu inn 800,000 fanga fyrir fyllirí. Á 11 árum síðan bannið var tekið af hafa

7,000,000 fangar verið settir inn fyrir drykjuskap, og $15,000,000,000 verið teknar inn fyrir sektir. Og þó er einn fimti af þjóðinni undir vínbannslögum enn í dag.

"Hjálpaðu þér sjálfur, þá hjálpar drottinn þér."

Það hefir nýlega verið settur á stað félagsskapur, fyrst í Bandaríkjunum og nú í mörgum borgum í Canada, sem heitir Alcoholics Anonymous (Ofdrykkjumaður ónafngreindur).

Þessi nauðsynlegi félagsskapur, er nú að útbreiðast óðum. Yfir 20,000 í Bandaríkjunum, og nú að breiðast út í Canada, frá austri til vesturs.

Einn ónefndur Íslendingur, kom því á stað í vetur sem leið hér í Winnipeg, og það eru nú yfir 30 menn og ein kona komin í það. Það kemur saman þrisvar í viku í prívat sal, sem það hefir á leigu, og útbúinn þeim til þæginda. Hvað gerist þar?

1. Ofdrykkjumaður þarf hjartalega, andlega vakningu.

2. Ofdrykkjumaðurinn verður að rannsaka sitt sálar- og samvizkuástand og skriftast. – Játa og biðja guð fyrirgefningar, kannast við siðferði sitt ráðvandlega og gera endurbót.

3. Siðferðisbrot (synd) geta verið smækkuð, með því að beita meiri ráðvendni og auðmýkt, ósérplægni, umburðarlyndi, göfuglyndi, elsku til guðs og náungans.

4. Ofdrykkjumanns undirstöðu vandræði er eigingirni, fullt af hræðslu og eigingirni. – Hann hefir gleymt bróðurkærleikanum.

5. Ofdrykkjumaðurinn ætti að læra, einka kraft, ástúðleikans, löngun til að þjóna öðrum, löngun til að þjóna guði. Hann verður að leggja niður sitt eigið líferni, til að finna það. Hann ætti að ganga til kirkju og sameinast kristnum söfnuði, og þar finna sjálfstraust í gegnum guðsorð, því trú án vinnu og sjálfsafneitunar er dauð.

Þið sjáið á þessu, að aðal meðalið sem þetta nýja A.A. félag notar til að lækna sína drykkjuveiki, er guðsorð. Svo eg held að kirkjan okkar ætti að leggja til sinn skerf til að styrkja það með bænum sínum.

Eina fylkið í Canada, Saskatchewan, sem er undir lögjafnaðar kenningu C.C.F., settu ekki ölbruggunar fabrikkurnar undir eign þess opinbera, vegna þess að verðið sem sett var á það var svo hátt, $3,500,000. Í stað þess þá, settu þeir niður gróðann hjá bruggurunum 16 cent á hverjum kassa. En hækkuðu verðið til hótelanna um 40 cent á kassann. Svo var það gefið út í vikunni sem leið, af féhirði fylkisins, að útkoman hefði

verið sú, að á fyrsta "árinu sem þeir eru við völdin, hafi eyðslan farið upp, en ekki niður." "Svipur stjórnarinnar varð hörmulegur." En stjórnin lét huggast láta, því fylkið græddi á bjórsölunni $6,605,448 á árinu.

Bindindisfélagið í Manitoba, hefir unnið mikið verk á árinu, við að upplýsa fylkisbúa, með því að senda út með pósti, mörg þúsund fræðandi skjöl, hvert eftir annað, og þeim hefir verið tekið vel, og fólk hefir sent okkur nóga peninga til að borga allan kostnaðinn við prentun og póstgjald. Við höfum engan launaðann mann, allt það verk hefir verið unnið ókeypis. Nú erum við að reyna að gera samninga við séra Spence, sem hefir gert bindindi að lífsstarfi sínu, og hefir unnið fyrir bindindisnefndirnar, bæði í fylkjunum Alberta og Saskatchewan, aðallega Alberta. Verið þar sem útbreiðslumaður í tvö ár. Við vonum að geta fengið hann til að ferðast um fylkið í nokkrar vikur í sumar.

"United Church of Canada" eru rétt ný búnir að halda sitt þing í Winnipeg. Í sambandi við það þing, var sýnd hreyfimynd af áhrifum áfengis. Rev. Dr. Chalmers frá Toronto. Hann er aðstoðarmaður Rev. Dr. Mutchmore í útbreiðslustarfi United Church of Canada. Hann skýrði þessa mynd, og lagði fram spurningu: "Eigum við leiðtogar kirkjunnar að taka þátt í þessu siðferðisleysi, mótmælalaust? Hann hélt því fram, "að prestafélög kirkjudeildanna, mættu ekki vera hlutlaus í þessu vandamáli, heldur sýna fyrirmynd í því, sem öðrum siðferðismálum.

Það var borin upp uppástunga, sem kom frá leikmönnum kirkjunnar, "Að fara fram á það, við stjórn Íslands, að banna notkun á bæði korni og sykri til áfengis bruggunar, þar sem þjóðirnar dæju úr hungri um allan heim.

Önnur uppástunga kom frá Hudson Bay Presbytery, "Að banna sölu á öllu Lemon eða öðru Extracts", sem eru blönduð vínanda, til Indíána, eða þeirra sem hefðu Indíána blóð í æðum sínum.

Það hlýtur að vera eitthvað meira en lítið hættulegt við þennan drykk, fyrir hvítt fólk, ef Indíánar mega ekki bragða það í neinni mynd.

Í von um að eitthvað verði gert, til að styðja þetta velferðarmál, á þessum hættu tímum, svo fólk finni til þess að kirkjan sé að taka sinn þátt í því.

Virðingarfylst,

**Margrét Í Bardal**

# TWENTY-SECOND CONVENTION.

**of the Lutheran Women's League,**
**held in Baldur and Glenboro, Manitoba, May 31, to June 2, 1946.**
**L. M. Guttormsson, Secretary.**

Mrs. Ingibjorg J. Olafsson of Selkirk, president, formally opened the Convention in the Baldur church at 3. p.m., Friday May 31.

Devotional Exercises—Mrs. B. B. Jonsson, Winnipeg.

Address of Welcome—Mrs. K. Thorsteinson, Baldur.

Greetings read from Dr. H. Sigmar, Vancouver.

Business Meeting until 6 o'clock.

**8 p.m.—Program.**

Devotional Exercises—Mrs. Lilia Eylands.

Address of Welcome—Mrs. Ingibjorg Olafsson.

1. Paper—"Woman's Progress in Iceland"—Mrs. Sigridur Ragnar, N. Dakota.
   Appreciation of Paper—Mrs. Louise Gislason, Brown, Man.
2. Piano Duet—Miss Betty Peterson and Mr. Arni Sveinson, Baldur.
3. Paper—"Child Guidance"—Miss Grace Dolmage, Winnipeg.
   Appreciation of Paper—Mrs. Flora Benson, Winnipeg.
4. Piano Solo—Mr. Arni Sveinson, Baldur.
5. Commemoration of fortieth anniversary of the Ladies Aid Society, Baldursbra of Baldur. A toast was proposed to the Society by Mrs. Gudrun Johnson, of Winnipeg, which was replied to by Mrs. K. Thorsteinson, the president.

(God Save the King)

Following the program, lunch was served in celebration of its anniversary by the members of Baldursbra Society. Lunch and supper had been served to all representatives and guests by the Baldur and Grund ladies that day.

**Saturday, June 1, at Glenboro.**

9—12 a.m.—Business Meeting.

Devotional Exercises — Mrs. Lauga Johannesson, Winnipeg.

1.30—3.30 p.m.—Business Meeting.

Rev. S. Olafsson congratulated the League on its work and expressed his well wishes.

3.30—4.00 p.m.—Handicraft Exhibit.

Refreshments served.

4.00–6.00 p.m.–Business Meeting.

Lunch, afternoon coffee and supper served by the Glenboro and Bru Laidies Aids.

**8.00 p.m.–Program.**

Devotional Exercises–Rev. E. H. Fafnis.

1. Chorus–Six young girls accompanied by Mrs. Albert Sigmar.
2. Vocal Solo–Mrs. Esther Ingjaldson, Winnipeg. accompanied by Mrs. Rawlings.
3. Paper–"The Pioneer Women of New Iceland"–Mrs. Hrund Skulason, Geysir.
4. Vocal Solo–Rev. E. H. Fafnis, N. Dakota, accompanied by Mrs. Fafnis.
5. Paper–"The Ideals of Our Camp Work"–Mrs. Fjola Gray, Wpg.
6. Presentation–by Mrs. Laura Tergesen, Gimli, of a $100. War Bond from the Gimli Ladies' Aid to the Memorial Fund of the L.W.L. in memory of the town's service men who never returned. Appreciation of this generous gift was expressed by Mrs. Olafsson.
7. Address by Rev. E. H. Fafnis, an appreciation and encouragement of the work being done by the L.W.L., especially in the Camp project.
8. Vocal Solo–Mrs. Esther Ingjaldson.
9. Address of thanks to the L.W.L. by Mrs. Gudrun Anderson, Glenboro and Bru Ladies' Aids.

Collection was taken in aid of the Camp to the amount of $100. Mrs. Olafsson thanked the audience for their generosity. She also thanked all the people in the district of Argyle for a grand reception and for their efforts to make our stay such a pleasant one.

Convention adjourned–Mrs. Olafsson.

**Sunday, June 2.**

At 11 a.m. a church service was conducted by Rev. S. Olafsson of Selkirk, in the Grund church. In his sermon the pastor paid tribute to the wonderful Christian service rendered by the Lutheran Women's League in their Camp project as well as in other ways. The sacred music was rendered by the combined church choirs of the district under the leadership of Arni Sveinson, the organist. Mrs. Esther Ingjaldson was soloist. Refreshments were served by all the Ladies' Aids in the com-

munity to the huge gathering. Following a short executive meeting all the delegates and guests returned to their various homes by automobile or chartered bus.

**Convention Business in Brief.**

Before business was commenced with, the president read the names of members who had died during the year, namely: Mrs. Thorey Oddleifson, Arborg; Mrs. Clara Einarson, Arnes; Mrs. Johanna Benson, Selkirk; Mrs. Jonina Julius, Winnipeg; Mrs. Gudrun Johannson, Winnipeg; Mrs. Gudfinna Thordarson, Langruth; Mrs. Stefania Helgason, Hekla; Mrs. Hólmfridur Ingjaldson, Arborg and Mrs. Sigurbjorg Johannson, Wadena, Sask. Following this a tribute was paid to the memory of these women by silent prayer and the Lord's Prayer.

Accredited representatives attended the Convention as follows: 27 delegates from 15 Ladies' Aids, 19 officers and committee members. Seven of the pastors' wives were present who automatically are entitled to the full privileges of accredited members. They were: Mrs. Ingibjorg J. Olafsson; Mrs. Ingiridur Jonsson; Mrs. Lilia Eylands; Mrs. Sigridur Sigurgeirson; Mrs. Sigrun Thorgrimson; Mrs. Ingunn Marteinson and Mrs. Ellen Fafnis.

Reports were read from 18 of the 21 Societies within the League, two of which joined during the year, the Husavick Ladies' Aid and the Junior Ladies' Aid, Selkirk. The total membership is about 600 members, and their total receipts during the year were about $11,000. This huge sum was devoted to a variety of philanthropic enterprises in church and missionary work, charity at home and abroad, post-war work, cultural work such as encouraging the study of the Icelandic language and its songs and by having prepared papers read at meetings. They all support the Camp project to the utmost of their ability. They manifest keen interest, self-sacrifice, courage, and accomplishment in their various activities.

**Finances:** The treasurer's report showed: Balance on hand last year, $299.31; Receipts, $71.25; Disbursements, $149.42; On hand June 1, 1946, $221.14. The General Camp Building Fund showed: Balance on hand last year, $2,396.59; Receipts, $4,350.38; Disbursements, $3,509.09; On hand June 1, 1946, $841.29. The Memorial Fund showed: On hand, June 1, 1946, $1,585.11, to be used for Memorial Hall. Building fund in North New Iceland totals $781.00 for the Boy's dormitory; building fund in South New Iceland totals $1,285.00 for the Girl's dormitory. The

"Ardis" financial report showed: Balance on hand last year, $632.28; Receipts, $387.01; Disbursements, $546.86; On hand June 1, 1946, $472.43. All reports were audited by chartered accountants.

**Topics of Discussion:—**

1. **Sunday School Work**—It was agreed that the best method of arousing interest in Sunday School work in outlying districts would be to exert influence through students attending the Leadership Training Course at the Camp. Three women were appointed to canvass those districts for such promising students, to arouse interest in the work among the people and to encourage the establishment of local Sunday Schools in conjunction with the mission work committee of the Synod. The three women are: Mrs. H. G. Henrickson, Winnipeg; Mrs. Lauga Johannesson, Winnipeg, and Mrs. Anna Skaptason, Winnipeg.

2. **Ardis**—will be published as before but it was the unanimous decision of the Convention to sell it at 50c. instead of 35c. this year, on account of its larger size and the increased cost of publication, and to await results. The magazine has been successful in every way, due to the good work of the editors: Mrs. Ingibjorg J. Olafsson, and Mrs. Margret Stephensen; the business manager, Mrs. Gudrun Johnson and her assistants, Mrs. M. M. Jonasson and Mrs. Aldis Petursson.

3. **The Camp**—At our Convention a year ago the Executive and Camp Committee were entrusted with the execution of the decision to build a Camp, at the site bought at Husavick, Man. The members have most ably and successfully performed their responsibility. They appointed a Building Committee with Mrs. Fjola Gray as Convener. On it were among others, the Camp carpenter, Mr. Sveinn Palsson, also Mr. Hrolfur Sigurdson and Mr. S. O. Bjerring as able assistants. Through this committee's special efforts five building have now been completed, lights have been installed and a flowing well drilled, besides numerous other accomplishments. A Buying Committee headed by Mrs. Gray bought many necessary pieces of furniture and other articles.

Members of Executive and Camp Committee and some others form a committee in the Arborg and Riverton parish soliciting funds for boys' dormitory. In the same manner funds are solicited in the Gimli parish for the girls' dormitory. Members of Camp Committee in Winnipeg are soliciting funds towards dining hall and kitchen. The people of Langruth sponsor the building of the hospital. The people of Husavick are solicit-

ing funds to pay for the lights and wiring. The memorial hall will be erected as soon as material can be obtained. The memorial fund is ever increasing.

Thus, so much has been accomplished, all under the general direction of the president, Mrs. Olafsson. Her special dream has been realized, a Chrisian Leadership Training Camp, named "Sunrise Lutheran Camp", situated on the shore of Lake Winnipeg in a most beautiful setting. She presented the Camp schedule to be followed this summer, and in connection with it the convention passed a resolution consisting of the following sections: 1. Statement of fees to be charged this summer at the Camp. 2. Method of soliciting for students and other campers was left in the hands of the Ladie's Aids who are to report to the Registrar. 3. Selection of Camp leaders was left in the hands of the new Camp committee. 4. Choice of the name "Sunrise Lutheran Camp", was unanimous. 5. Program during the open week, July 20-28, was proposed for mothers with children under 8 years of age.

The President announced that, following the Minister's Retreat there would be a Sunday School Teacher's Rally under the direction of Rev. H. Sigmar of Seattle, then the dedication of the Camp by Dr. H. Sigmar of Vancouver, on Sunday July 7. Then would follow the Leadership Training Course with Rev. E. H. Fafnis as Dean of Camp. The remaining schedule would consist of periods for mothers with children, girls 8 to 14 years, boys same age, adults, all for people of any nationality, of any creed.

4. **Temperance**—Mrs. A. S. Bardal, our representative on the executive of the Manitoba Temperance Alliance, read a fine report on the subject. She stated that a great deal of informative literature had been distributed by the M.T.A. and that they had secured the services of Rev. Spence for a few weeks to arouse public interest in the subject by lectures at the larger centres in the province. She urged members to pave the way for Rev. Spence in every way possible. A lively discussion followed which clearly showed the opinion of the League's members that temperance education is necessary as well as restriction of liquor laws. They urged that influence in this direction be exerted by individuals as well as by the church and community. The Convention voted a money donation to the M.T.A.

5. **Handicraft Exhibit**—The exhibit at this Convention was more varied and more extensive than ever and proved to be of real interest. Many excellent articles, examples of embroidery, crocheting, tatting, hardanger, quilting, etc. were sent from the various districts, and were definite proof of the versatility of our women in handicraft work. The President urged the continuance of this project.

6. **Election of Officers:**

Honorary Presidents—

Mrs. Ingunn Marteinson, Winnipeg
Mrs. Gudrun Johnson, Winnipeg
Mrs. Hansina Olson, Winnipeg.
Mrs. Erika Thorlakson, Seattle.

Past President—Mrs. Lena Thorleifson, Langruth.
President—Mrs. Ingibjorg J. Olafsson, Selkirk.
Vice-President—Mrs. H. G. Henrickson, Winnipeg.
Recording Secretary—Miss Lilja M. Guttormsson, Winnipeg.
Corresponding Secretary—Mrs. Anna Magnusson, Selkirk.
Treasurer—Mrs. Rosa Johannson, Winnipeg.
Vice-Treasurer—Mrs. E. W. Perry, Winnipeg.

**Executive:**

Mrs. A. S. Bardal, Winnipeg; Mrs. J. S. Gillies, Winnipeg; Mrs. B. Bjarnason, Langruth; Mrs. Anna Austman, Vidir; Mrs. G. A. Erlendson, Arborg; Mrs. C. Nordman, Cypress River.

**Ardis:**

Editors—Mrs. Ingibjorg J. Olafsson, Selkirk; Mrs. Margret Stephensen, Winnipeg.
Manager—Mrs. Gudrun Johnson, Winnipeg.
Assistant Managers—Mrs. M. M. Jonasson, Arborg;
Mrs. Loa Olafsson, Arborg.

**Camp Committee:**

Mrs. A. H. Gray, Winnipeg; Mrs. J. Tergesen, Gimili; Mrs. Florence Paulson, Winnipeg; Mrs. S. Sigurgeirson, Gimili; Mrs. K. Sigurdson, Sandy Hook; Mrs. H. Hallson, Riverton; Mrs. Paul Anderson, Glenboro; Mrs. K. Thorsteinson, Baldur; Mrs. J. Finnbogason, Langruth; Mrs. G. W. Finnson, Winnipeg; Mrs. H. G. Henrickson, Winnipeg; Mrs. S. Arason, Husavik; Miss M. Halldorson, Gimli; Mrs. B. S. Benson, Winnipeg;

Mrs. C. Olafsson, Winnipeg; Mrs. F. J. Gislason, Morden; Mrs. Olof Corrigal, Selkirk.

Treasurer of Camp Fund: (Chosen at Executive Meeting).

Mrs. G. W. Finnson, 505 Beverley St. Winnipeg.

Treasurer of Memorial Fund:

Mrs. Anna Magnusson, Box 296, Selkirk, Man.

Delegates appointed to the synodical convention this summer were:

Mrs. G. A. Erlendson, Arborg.

Mrs. S. Sigurgeirson, Gimli.

Committee elected by ballot to revise the Constitution of the Lutheran Women's League were: Mrs. Ingibjorg J. Olafsson; Mrs. A. H. Gray; Mrs. B. S. Benson; Mrs. H. G. Henrickson and Mrs. V. J. Eylands.

## Kvenfélag Herðubreiðar safnaðar Langruth

Fundir fyrsta laugardag í hverjum mánuði.

Forseti ........ Mrs. J. Finnbogason
Varaforseti .... Mrs. H. Thompson
Skrifari .......... Mrs. G. Thorleifson
Féhirðir ............. Mrs. O. Oddson

## Kvenfélag Baldursbrá Immanuel safn.

BALDUR, Man.

Fundir fyrsta miðvikudag í hverjum mánuði.
Minningarstjóður Kristjáns Jónssonar til líknarstarfs.

## Missionar Félag Immanuel Safnaðar

WYNYARD, Sask.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

## Lutheran Ladies Aid

ÁRBORG, Man.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

Heiðursforseti:
Hólmfríður Ingjaldsson

Forseti .......... Mrs. B. A. Bjarnason
Skrifari ............... Mrs. L. Björnson
Féhirðir .......... Mrs. B. M. Paulson

## Kvenfélagið Freyja

GEYSIR, MAN.



Forseti .................. Mrs. O. Gíslason
Skrifari ............. Mrs. G. Gíslason
Féhirðir ......... Mrs. J. B. Thorðarson

## Kvenfélagið Stjarnan Árnes, Man.

Fundir fyrsta miðvikudag í hverjum mánuði

Forseti ........ Mrs. Óskar Erikson
Skrifari: Mrs. Leifur Helgason
Féhirðir: Mrs. Jack O'Hare

## Kvenfélag Frelsissafnaðar að GRUND í ARGYLE

Fundur hadlinn fyrsta fimtudag í hverjum mánuði

Forseti: Mrs. Krist. Christopherson
Skrifari ................... Mrs. S. Sigmar
Féhirðir ............ Mrs. B. S. Johnson

## Kvenfélagið Fjólan

MORDEN, MAN.

Embœttiskonur:

Forseti .......... Mrs. Ranveig Olafson
Skrifari ................ Lovísa Gíslason
Féhirðir ....................... Ólafia Gillis

**Kvenfélagið "Framsókn" Gimli safnaðar**

Fundur fyrsta fimtudag í hverjum mánuði
Blómsveigasjóður til líknarstarfs
Heiðursforseti:
Mrs. H. P. Tergesen
Forseti........Mrs. Skúli Sigurgeirson
Skrifari................Mrs. H. Stevens
Féhirðir ........... Mrs. J. Jakobson

**Kvenfélag Glenboro safn.**

GLENBORO, MAN.

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði. — Blómsveigasjóður til líknarstarfs.

Forseti.............Mrs. Björg Myrdal
Skrifari......Mrs. Guðrun Anderson
Féhirðir......Mrs. Lára Jósephsson

**Junior Ladie's Aid**

OF THE

FIRST LUTHERAN CHURCH

Meet second and fourth Tuesday of each month

WINNIPEG, MAN.

**Kvenfélag Fyrsta Lúterska Safnaðar Winnipeg**

Fundir klukkan 2.30 annan hvern fimtudag.

Forseti.............Mrs. B. B. Jónsson
Skrifari..........Mrs. Finnur Johnson
Féhirðir...............Mrs. M. Paulson

**Kvenfélag Fríkirkju Safnaðar**

BRÚ

Fundir fyrsta fimtudag í hverjum mánuði.

*Blómsveigasjóður til líknarstarfs.*

Forseti...........Mrs. Óli Stefánsson
Skrifari.......Mrs. Konráð Nordman
Féhirðir..........Mrs. S. Hallgrimson

**Kvenfélagið "Undina"**

HECLA, MAN.



Fundir einu sinni í mánuði.

Forseti...............Sigþóra Tómasson
Skrifari.........................Anna Jones
Féhirðir....Mrs. Sylvía Halldórsson

**Kvenfélagið Ísafold**

Víðir, Manitoba



Fundir fyrsta þriðjudag í hverjum mánuði



**Kvenfélag Bræðrasafnaðar**

RIVERTON MAN.

Fundir þriðja fimtudag í hverjum mánuði.
Byrja kl. 2.30 e. h.

Heiðurs forseti,
Mrs. Helga Thorarinson

Forseti.................Mrs. H. Hallson
Skrifari..........Mrs. Th. Thorarinson
Féhirðir...............Mrs. S. Olafsson

Öllum þeim sem auglýsa
í þessu riti, vottar útgáfu-
nefndin virðingu og þakklæti.



Öllum þeim sem auglýsa
í þessu riti, vottar útgáfu-
nefndin virðingu og þakklæti.



Printed by Thorgeirson Company, 532 Agnes St., Winnipeg.